hann kveðst Gestr heita. Hann spurði hvárt Eiðr væri nokkurs ráðandi. Eiðr segist ráða því hann vill. Viltú þá, segir Gestr, veita mèr vetrvist í vetr. Ekki er ek ráðinn í því, segir Eiðr. Litla geri þèr yðr uppvaxandi menn, segir Gestr, at þèr takizt eigi á hendr at gefa einum manni mat nokkrar nætr, enda skal ek fara i burt ok bera hróðr þinn hvar sem ek kem. Eiðr mælti: hví skaltú eigi vera hèr í vetr, heldr en fara í burt á náttarþeli; gekk Gestr þá inn með bóndasyni, spurði bóndi hvaðan þessi maðr væri en Eiðr segir allt frá viðtali þeirra Gests. Skeggja fanst lítið um en lèt Eið þó ráða. Þar var Gestr um vetrinn, er reyndar var Bárðr Snæfellsáss. Bárðr kendi Eið lögspeki ok mannfræði; varð Eiðr allra manna lögvitrastr, svá at hann var af því Laga-Eiðr kallaðr. Þá var Þórdís dóttir Skeggja xv vetra, töluðu þat sumir menn, at Gestr munði fifla hana um vetrinn. At sumri fór Gestr í bruttu ok þakkaði Eið vistina. En er leið sumarit, digraðist Þórdís í gerðunum, en um haustið varð hón lèttari i seli. Þat var sveinbarn frítt ok mikit; hón jós sveininn vatni, ok kvað hann skyldu heita i höfuð föður sínum, ok var hann kallaðr Gestr. Annan dag eptir kom kona í selit, ok bauð at taka við sveininum ok fóstra. Þórdís lèt þat eptir henni. Litlu síðarr hvarf hón brutt ok sveinninn; var þetta reyndar Helga Bárðardóttir. Fæddist Gestr upp með henni nokkura stund. Litla rækt lagði Skeggi á Þórdísi síðan þetta var. Fám vetrum síðarr bað Þorbjörn Grenjaðarson Þórdísar Skeggjadóttur, ok var hón honum gipt. Setti Þorbjörn þá bú saman i Túngu fram frá Melum[1]; vóru þau ekki lengi ásamt áðr þau gátu ij sonu, hèt hinn eldri Þórðr en hinn ýngri Þorvaldr, þeir vóru báðir efniligir menn ok bar Þórðr þó langt af. Þorbjörn gerðist auðigr maðr at ganganda fè svá hann hafði í geymslu v hundruð sauða.

1) er síðan er kölluð Grænamýrartúnga, *tf.* 165; 486.

12. Sá maðr bjó at Lækjamóti í Víðidal, er Þorgils hèt, ýmist kallaðr Þorgils gjallandi eðr spaki; hans son[1] var Þórarinn spaki fóstri Víga-Barða. Þá bjó Auðunn skökull á Auðunnarstöðum ok var þá gamall, ok hafði verit hinn mesti maðr ok mikill garpr. Þorbjörn bóndi í Túngu hafði mörg örræði[2] til penninga; hann hafði selför fram í Hrútafjarðardali ok lèt þar vinna öndverð sumur. Þórdís húsfreyja var jafnan í seli; þá var Þórðr vj vetra en Þorvaldr v. Eitt kveld var Þórdís við læk ok þvó hár sitt, þá kom Helga Bárðardóttir þar með Gest, ok var hann þá xij[3] vetra. Hón mælti: þar er sonr þinn, Þórdís, ok væri eigi víst, at hann hefði meira vaxit þó hann hefði hjá þèr verit. Þá spurði Þórdís hvat konu hón væri. Hón segist Helga heita ok vera dóttir Bárðar Snæfellsáss, en víða höfum vit Gestr verit, þvíat heimili mitt er eigi (á) einum stað; vil ek þat ok segja þèr, at vit Gestr erum systkin, ok er Bárðr faðir okkar beggja. Þórdís segir: þat er ólíkligt. Ekki dvaldist hón þar, ok fór þegar á burt, en Gestr var eptir hjá móður sinni, ok var hann bæði mikill ok fríðr, þvíat hann var svá stórr þegar sem þeir menn, er á tvítugsaldri vóru. Gestr var í Túngu hinn næsta vetr, ok þá sótti Bárðr faðir hans hann, ok flutti hann heim með sèr í Snæfellsjökul. Fært hafði Bárðr Þórdísi vænan kvennmanns-búníng. Gestr vóx upp með föður sínum ok kendi hann honum allar þær listir, sem hann kunni; gerðist Gestr svá sterkr, at engi var líki hans þeirra er þá vóru uppi.

13. Í þann tíma var Hít tröllkona uppi ok bygði Hundahelli í þeim dal, er síðan var kallaðr Hítardalr. Hít setti þá jólaveizlu sterka. Hón bauð þar fyrstum Bárði

---

1) *urigtig, sml.* Ldn. 3, 4—5.
2) *saal.* 486; úrræði, Hd.
3) viij 486.

Snæfellsás, ok fór Gestr með honum son hans ok Þorkell skinnvefja. Þangat var ok boðit Guðrúnu knappekkju ok Kálfi syni hennar. Þangat var ok boðit Surt af Hellisfitjum ok Jóru ór Jórukleif. Sá þurs var þangat boðinn, er Kolbjörn hèt, hann bygði þann helli, er stendr í Breiðdalsbotnum, en þat er í framanverðum Hrútafjarðardal þar sem[1] grynnir dalinn vestr undir Slèttafelli. Kolbirni fylgdu þeir Gapi ok Gljúfra-Geirr, er heima áttu á Háfa-Gnúpi í Gnúpsdal. Glámr ok Ámr ór Miðfjarðarnesbjörgum, þar var ok Guðlaugr ór Guðlaugshöfða. Svá var sætum skipat í Hundahelli, at innar um þvert á miðjan bekk sat Guðrún knappekkja; á aðra hönd henni sat Jóra ór Jórukleif Egilsdóttir, en á aðra hönd henni sat Helga Bárðardóttir, en eigi vóru þá fleiri; en Hít gekk um beina. Í öndögi sat Bárðr Snæfellsáss[2] en utar frá Guðlaugr ór Guðlaugshöfða, en innar frá Gestr Bárðarson; þá Kálfr ok Þorkell skinnvefja. Gegnt Bárði sat Surtr af Fitjum, en innar frá honum sat Kolbjörn ór Breiðdal; þá Glámr ok Ámr[3] en utar í frá Geirr ok Gapi[4]. Vóru þá borð upp tekin ok matr á borinn heldr stórkostligr. Drykkja var þar mjök óstjórnlig, svá allir urðu þar gintir. En er máltíð var úti, spurðu þursar ok Hít, hvat Bárðr vildi til gamans hafa, kvóðu hann þar skyldu hýbýlum ráða. Bárðr bað þá fara til skinnleiks.[5] Stóðu þeir þá upp Bárðr ok Surtr, Kolbjörn, Guðlaugr ok Gljúfra-Geirr ok höfðu hornaskinnleik;[6] var þá ekki svá lítið um þá; þó var þat auðsèt, at Bárðr var sterkastr þó hann væri gamall. Bjarnfeld einn[7] stóran höfðu þeir fyrir skinn,

1) víðkar ok, *tf.* 486,
2) á langbekk, *tf.* 486.
3) 486; Geirr, Hd.
4) 486; ok Ámr *tf.* Hd.
5) hráskinnsleiks 165.
6) *saal.* Hd. *og* 486.
7) bjarnfell eitt (neutr.) 486.

ok vöfðu hann[1] saman ok köstuðu honum[2] á milli sín fjórir, en einn var úti, ok skyldi sá ná. Ekki var gott at vera fyrir hrunníngum þeirra. Flestir stóðu upp í bekkjum nema Gestr, hann sat kyrr í rúmi sínu. En þá Kolbjörn var úti, ætlaði hann at ná skinni fyrir Bárði, ok hljóp at heldr snarliga; en er Gestr sá þat, skaut hann fætinum fyrir Kolbjörn, svá þursinn hraut þegar út á bergit svá hart at brotnaði í honum nefit; fèll þá blóð um hann allan; varð þá upphlaup ok hruðníngar heldr sterkligar; vildi Kolbjörn hefna sín á Gesti. Bárðr segir, at þat skal öngum duga, at gera nokkut ómak i herbergjum Hítar vinkonu sinnar, þar sem hón hefir boðit oss með kærleikum. Varð nú svá at vera sem Barðr vildi, en þó undi Kolbjörn illa við, er hann gat eigi hefnt sín; fór nú hverr til síns heimkynnis; sýndist þat enn sem optarr, at allir þursar vóru við Bárð hræddir. At skilnaði, er Gestr fór í burtu, gaf Hít honum hund, er Snati hèt, hann var grár at lit. En mesta fylgð var í rakkanum sakir afls ok speki. Hón segir, at hann væri betri til vígs en iiij karlar. Síðan fór Bárðr heim, ok höfðust þeir Gestr þá heima við um tíma.

14. Gustr hèt sauðamaðr Þorbjarnar bónda í Túngu, hann geymdi fjár vetr ok sumar; hann sýndi bónda hina mestu dygð í öllum hlutum. Gustr var frækinn ok fóthvatr en ekki sterkr. Tíu vetrum síðarr en Gestr fór úr Túngu bar þat til tíðinda at allt sauðfè hvarf í brutt, þat Þorbjörn bóndi átti í geymslu Gusts sauðamanns, ok leitaði iij daga í samt, svá hann fann öngan sauð, ok kom svá heim at kveldi, ok sagðist mundu uppgefa leitina fjárins, þvíat ek hefir þessa daga leitað í allar ættir, ok þær leitir, er

1—2) þat—því, 486.

mèr þikkir nokkur líkindi vera, at fènaðr megi verit hafa. Bóndi gaf honum stór ávít, ok kvað fèit nærri liggja mundu. [Gustr kvað þó eigi lengr leita mundu[1]. Um morguninn reið Þorbjörn til Reykja í Miðfjörð, at hitta Skeggja mág sinn. Skeggi tók allvel við honum, ok frèttir tíðinda. Þorbjörn segist eigi segja tíðindi, utan horfit er mèr sauðfè mitt allt í burt, ok hefir leitað verit iij daga í samt ok finst eigi; er ek því hèr kominn, at ek vilda þiggja af þèr heil ráð hversu með skal fara, ok at þú segir mèr hvat þèr þikkir líkligast, at af sè orðit, því at engi líkindi eru á um hvarf fjár þessa. Sjá þikkjumst ek, segir Skeggi, hvat af fè þínu mun orðit; þat hafa tröll tekit einhver, ok hafa huldu yfir; mun þat ekki öðrum vinnast en sonum þínum, at ná því aptr, þvíat til þeirra mun leikr gerr; má vera, at þeir þikkist sín eiga í at hefna, ok hafi orðit halloka fyrir einhverjum þeirra náúngi, þó hann geti eigi á þeim hefnt, ok er þat mitt ráð, at þeir bræðr leiti. Reið Þorbjörn heim aptr við svá búit ok talar við sonu sína, at þeir leiti fjárins. Þórðr segir: Skeggi frændi minn mun þetta til hafa lagt, en þó þikki mèr sem sá muni í tröllahendr sendr, en þó má vera, at Skeggi frændi minn hafi nökkut í sèt, at okkr aukist framkvæmd við, ok skulu vit fara at vísu. Ok einn morgin snemma bjöggust þeir til ferðar bræðr fram á heiðar, ok nærr miðjum degi höfðu þeir ekki til fundit, en vóru þó komnir langt fram. Þá mælti Þórðr: nú skulu vit skilja, ok skaltú ganga [upp undir Snæfell[2], ok kanna allar Hvamsártúngur, ok ganga svá it efra aptr um fjöllin ok svá til Svínaskarðs ok Haukadalsskarðs ok þaðan heim, en ek ætla at kanna Hrútafjarðardal allan fram í botn, ok ef ek kem eigi heim í kveld,

1) [*tf.* 486.

2) [upp Snjófjöll 486.

þá heilsa föður mínum ok móður ok vinum ok frændum, þvíat þat er þá líkast, at mèr verði eigi aptrkvómu auðit. Síðan skildu þeir bræðr. Gekk Þorvaldr allan greindan veg ok kom heim um kveldit, ok hafði ekki fundit af fènu. En frá Þórði er þat at segja, síðan þeir bræðr skildu, at hann gengr fram á dalinn, ok ætlar hann at kanna hann á enda. Ok er hann hefir gengit um hríð, gerir á svarta þoku svá mikla, at hann sá hvergi frá sèr; ok er minst ván er varð hann varr við, at maðr var nærr honum í þokunni. Þórðr stefndi þangat, ok er hann nálgast, sèr hann, at þetta var kona ein. Þórði sýndist hón fríð ok vel á sik komin, ok ekki stærri en at meðalagi. En er hann hugðist mundu ná henni, hvarf hón honum svá skjótt, at hann gat eigi auga á fest hvat af henni varð í þokunni. Eptir þat reikar Þórðr eptir dalnum, ok ekki lengi áðr hann heyrir í dimmunni dyn mikinn, ok vánum bráðara sèr hann mann, ef svá skal kalla. Þessi maðr var mikill vexti ok mjök stórskorinn; bjúgr var hans hryggr ok boginn í knjám; ásjónu hafði hann ljóta ok leiðiliga, svá hann þóttist önga slíka sèt hafa. Nef hans brotið í þrim stöðum, ok vóru á því stórir knútar; sýndist þat af því þríbogit sem horn á gömlum hrútum. Hann hafði stóra járnstöng í hendi; ok er þeir mættust, heilsaði þessi dólgr á Þórð með nafni. Þórðr tók kveðju hans, ok spurði í mót hvert nafn hans væri. Hann kveðst Kolbjörn heita, ok ráða fyrir dal þessum. Þorðr spyrr hvárt hann hefði ekki orðit varr við fè föður síns. Kolbjörn segir: ekki er því at leyna, at ek veld fjárhvarfi föður þíns; er nú svá til borit, sem ek munda kjósa, at hann mundi at þèr víkja um leitina, eðr hefir þú nokkut fundit manna síðan þú fórt heiman annat en mik? Þórðr kallaðist víst sèt hafa eina konu en talat ekki við hana, því at hón hvarf mèr svá skjótt. — Þat mun verit hafa, segir

Kolbjörn, Sólrún[1] dóttir mín. Er þat nú boð mitt við þik, at þú kjós hvárt vilt heldr missa fjár föður þíns, ok fá aptr öngan sauð, þvíat mèr líkar ekki allvel við frændr þína suma, eðr hitt elligar, at vit semjum til, ok gipta ek þèr Sólrúnu dóttur mína; mun þá ok laust fèit fyrir þèr. Þórðr segir: þat mun frændum mínum þikkja skjótkeypt minna vegna, en svá at einu leizt mèr á konu þessa, at því mundi ekki mjök misráðit, þó hennar fengi röskr maðr. Þessa ráðhags skyldi ekki öllum kostr, segir Kolbjörn, en ekki vilda ek fyrirmuna dóttur minni góðs gjaforðs. Ferr þat fram, at Kolbjörn fastnar Þórði dóttur sína Sólrúnu með þeim skilmála, at á hálfsmánaðar fresti skal hann sækja brullaupit heim til Kolbjarnar; sagði hann heimili sitt vera í helli þeim, er í Brattagili er. Bað hann hafa með sèr svá marga menn sem hann vildi, fráteknum Miðfjarðar-Skeggja ok Eið syni hans, Þórði gelli ok Þorgilsi spaka ok Þorbirni öxnamegin, ok sízt Auðunni skökli ór Víðidal. Ekki vil ek at þú bjóðir þursum nè bergbúum, ok einna sízt Bárði Snæfellsás ok hans fylgjurum. Þessu játar Þórðr ok skildu við svá búit; víkr Kolbjörn þá í veg með Þórði; sjá þeir þá hvar fèit liggr í einum dyn[2] allt í dalverpi einu; rekr Þórðr þat þá heim með sèr í Túngu. Allir menn fagna honum vel ok frètta hann tíðinda, en hann segir slík sem vóru ok orðit höfðu í hans ferð. Þorbirni bónda fanst mikit um þetta, ok sagði líkligt, at hann mundi heillaðr af tröllum. Þórðr kvað mega takast betr, ok segir mèr ekki illa hugr um þessa ráðabreytni. Hitt þikki mèr ráð, frændi, segir Þorbjörn, at þú sækir ekki þetta brullaup ok segir öngum

---

1) Hd. *har oftest* Sólrunn Sólrunni (dat., nr.), *saal. har ogsaa 551 i Slutningen af Sagaen.*

2) dune Hd. *sml.* Svarfd. s. *Kap. 19.*

manni frá, ok látir sem ekki hafi í orðit. Þórðr gaf sèr þá fátt um; leið nú fram til ánefndrar stefnu.

15. Þórðr talar við Þorvald bróður sinn: viltú, frændi, fara með mèr, at sækja brullaup mitt? Þorvaldr segir: feigð ætla ek at þèr sækja, er þú vilt fara í flagðahendr, en þóat ek vissa þat fyrir, at ek kæma eigi aptr, þá vilda ek þat þó heldr, at fylgja þèr, en at vera heima, ef þú skyldir þar deyja; skal ek at vísu fara, ef þú ert ráðinn í at hitta Kolbjörn. Bjuggust þeir til ferðar ok gengu fram í Hrútafjarðardal þar til þeir fundu helli stóran, gengu þeir inn, ok var þar bæði fúlt ok kalt. En er þeir höfðu setið um stund, kom maðr stórr inn í hellinn, ok rann með rakki furðuliga mikill; þeir spurðu hann at nafni. Hann kveðst gestr þar vera. Þeir sögðu þat satt vera. Ertú Þórðr, segir hann, kominn til at sækja brullaup þitt? Hann kvað þat satt vera. Viltú þat, segir Gestr, at ek sè boðsmaðr þinn ok sè ek í boði þínu ok rakki minn? Svá lízt mèr á þik, segir Þórðr, at mèr megi at þèr fulltíng verða hvers sem við þarf, ok vil ek því játa. Standit upp þá, segir Gestr; þú munt vilja sjá brúðarefni þitt, eðr hversu sæmiliga þat er sett. Gengu þeir innar eptir hellinum þar til er þeir kvómu í afhelli. Þar sá Þórðr Sólrúnu sitja á stóli, ok var hár hennar bundit við stólbrúðirnar; hendr hennar vóru bundnar, en matr svá nærri, at hón þefaði af, en hafði ekki af meira en hón mátti sem minst lifa við; var hón svá mögr ok máttdregin, sem henni væri kastað skinni (á) bein. Þó sá Þórðr, at konan var fögr. Þórðr leysti hana. Fullan ástarþokka lagði Þórðr til hennar, ok kysti hana kærliga. Hón mælti: kosti þèr ok farit í bruttu áðr en Kolbjörn kemr heim. Þeir spurðu hvar hann var, en hón segir hann farinn at bjóða flögðum til brullaupsins, ætlar hann ekki annat en drepa ykkr bræðr báða, en halda mèr hèr í slíkum

kvölum sem ek hefi áðr haft. Þórðr spurði hvárt hón væri dóttir Kolbjarnar. Hón sagðist eigi hans dóttir vera, segir hann hafa numit sik í burt af Grænlandi undan Sólarfjöllum, frá Bárði föður mínum með fjölkýngi, ok ætlar mik sèr til handa ok frillu, en nú hefir ek ekki viljat samþikkjast honum, ok því hefir hann jafnan illa haldit mik, en þó vest síðan hann játaði mik þèr; fyrirman hann hverjum manni at eiga mik, hverjar glósur sem hann gerir þar á. Þórðr kveðst lífit skyldu á leggja at ná henni í burt. Síðan gengu þeir í burt frá henni, en hón var eptir; ok er þeir höfðu verit í hellinum um stund, heyrðu þeir dyki mikla ok skvoldr mikit. Þom þá Kolbjörn ok xxx þursa með honum ok mörg flögð önnur. Þórðr ok hans fèlagar gengu í mót Kolbirni ok hans fèlögum ok heilsuðu þeim. Kolbjörn var heldr ófrýnligr ok í illu skapi, ok leit ekki vinaraugum til Gests. Siðan vóru borð sett ok sæti skipuð; sátu þeir á annan bekk, Gestr, Þórðr og Þorvaldr. Hundrinn Snati lá fyrir fótum þeirra. Annarsvegar á miðjan bekk sat Gljúfra-Geirr, hann var mestr vin Kolbjarnar, ok honum líkastr um þat illt var; Þar innar frá sat Ámr og Gapi, þá Glámr ok síðan hvárr at öðrum, svá at skipaðr var hellirinn þeim megin sem þeir vóru. Ekki kom brúðrin i sæti. Kolbjörn gekk um beina; var nú matr borinn fyrir þá Gljúfra-Geir ok hans bekkjunauta, var þat bæði hrossakjöt ok manna. Tóku þá til matar ok rifu sem ernir ok etjutíkr hold af beinum. Matr var borinn fyrir þá Þórð ok hans fèlaga sá hverjum manni var vel ætr; drykkr var þar áfengr ok lítt sparðr. Kolbjörn átti móður er Skrukka hèt, hón var hit mesta tröll, ok þá þó afgömul; vildi Kolbjörn ekki at hón væri í þys þeirra ok ónáðum, var hón í afhelli einum; var þat þó fátt, at henni kæmi á óvart sakir fjölkýngi sinnar. Nú tóku menn Kolbjarnar at drekka með litilli stillíngu, ok urðu þeir skjótt

allir svíngalnir ok vóru ekki lögtalaðir, en hellirinn hljóðaði mjök undir. Kolbjörn gekk at Þórði ok mælti: hvat viltú til gamans eðr skemtanar láta hafa, mágsefni, þvíat þú skalt hèr mestu ráða um hýbýla háttu? Gestr segir, því hann varð skjótari til andsvara: hafi þat þínir menn helzt til gamans sem þeim er skapfeldast, hafit þá hvárt þèr vilit knútukast eða glímur. Síðan tók Glámr eina stóra knútu ok sendir af hendi heldr sterkliga ok stefndi á Þórð miðjan. Þetta sèr Gestr ok mælti: láttú mik sjá við[1] þessum leik, þvíat ek mun honum vanari en þit, ok svá gerði hann, ok tók á lopti knútuna, ok sendi síðan aptr, leitaði hón sèr staðar svá hón kom í augat Glámi svá snart, at þat gekk út á kinnarbeinit; varð Glámr illa við þetta ok grenjaði upp sem varghundr. Þenna áverka sèr Ámr fóstbróðir hans, ok tekr þegar knútuna ok lætr fjúka at Þorvaldi. Þetta sèr Þórðr ok tekr í móti, ok sendir aptr; knútan kemr á kinnbein Áms svá kjálkinn brotnaði í stykki; varð nú óhljóð mikit í hellinum. Skrámr úr Þambardal greip þá upp furðuliga stóran langlegg ok snaraði af hendi heldr sterkliga ok stefndi á Gest þvíat hann sat honum jafngegnt. Gestr tók í mót ok lèt eigi langt at bíða áðr hann sendir aptr með öngri vægð; kemr leggrinn á lærit ok höndina á Skrám með svá miklu afli, at hvárttveggja brotnaði. Þursarnir gera nú miklu meira óhljóð en frá megi segja, þvíat svá má at kveða, at þeirra hljóð væri líkari nágöll en nökkurs kykvendis látum. Kolbjörn mælti þá: gefit upp þenna leik, þvíat af Gesti munu vær allir illt hljóta; var þat ok þvert í móti mínum vilja, at hann var híngat boðinn. Svá búit muntú þat hafa, segir Gestr. Síðan tóku þeir at drekka í annan tíma allt þar til er allir duttu niðr með svefni hverr í sínu rúmi, nema Gljúfra-Geirr ok Gapi. Kolbjörn segir at þar skal

1) *saal* *i* 486, legunum ok *tf*. Hd.

hverr liggja sem kominn er, utan þit Geirr skulut fara í svefnhelli minn, ok svá gerðu þeir. Gestr segir, at þeir fèlagar skulu fá sèr sæng í öðrum stað; lögðust þeir niðr; ok er þeir vóru sofnaðir stendr Gestr upp, ok tekr sverð sitt ok gengr aptr í hellinn ok höggr höfuð af hverjum sem einum bergbúa þeim sem inni var. Ok er hann hafði lokit þessu starfi, gengr hann fram, ok leitar ef hann yrði varr við hvar þeir Kolbjörn lægi; finnr hann þá hurð eina í hellisberginu; hón var svá sterkliga læst, at Gestr þóttist vita, at þeir mundi vakna við, ef hann ætti þar nokkut við. Síðan gengr hann í hellinn til Sólrúnar; hann biðr hana upp standa ok fara með sèr. Hón gerir svá, ok kveðst þó hyggja, at þat mundi bæði hennar bani ok allra þeirra. Þau koma þar sem þeir bræðr vóru. Gestr biðr þá upp standa sem hvatligast ok verða í burtu úr helli þessum áðr en Kolbjörn vaknar, ef svá má verða; er Sólrún hèr komin. Síðan standa þeir bræðr upp, ok fara ofan eptir dalnum veg sinn.

16. Nú er þar til at taka, at Skrukka móðir Kolbjarnar vaknar nokkuru síðarr en þau eru í burtu; verðr nú þegar vís af sínum trölldómi hvat þeir fèlagar höfðu til ráðs tekit; sprettr þá upp sem ísheil[1] væri. Hón hleypr þegar á hurðina, þar sem Kolbjörn svaf inni, svá hart, at þegar stökk hurðin í marga hluti. Kolbjörn vaknar, ok spyrr hverr þar ferr með svá miklum hávaða. Skrukka segir til sín og mælti: hitt (er) ráð, Kolbjörn frændi, at liggja eigi lengr, þvíat burt er Þórðr farinn med Sólrúnu ok hans fèlagar; hefir Gestr þessu öllu ráðit; hefir hann drepit alla þína boðsmenn, nema þá er hèr eru; er nú ekki annat til, en fara eptir þeim ok drepa þau öll. Kolbjörn segir: opt sýnist þat, at þú ert ekki mörgum lík sakir þinnar vizku; munda ek opt flatt af fara, ef ek nyta eigi þín við; skaltú

1) *Saal. Hd. og* 486.

nú, móðir, fara fyrst, sakir þess at þú er albúin, ok vit at þú komizt fyrir þau; far þú hit efra um hálsa ok kom þeim á úvart, en vèr skulum fara hit neðra um dalinn, ok munu vit þá geta fundit þau. Síðan fór Skrukka, en Kolbjörn ok þeir fèlagar bjuggust sem hvatligast; fara þau síðan þar til þau sjá at þeim er eptirför veitt. Kolbjörn kallar þegar hann sèr þau; bað eigi lengra renna. Sólrúnu varð illt við þetta ok mælti: þóttumst ek vita, at þetta mundi eptir koma, þvíat þat er nú ráðit, at þèr erut drepnir allir; er Kolbjörn svá mikit tröll, at ekki stendr við honum. Gestr mælti: því mun nú hamíngjan ráða; munu vèr nú skipta liði. Þórðr skal í móti Kolbirni mági sínum; er þat makligt, at hann hafi mesta raun, því at hann hefir oss öllum í þessa þraut komit. Þorvaldr skal i mót Gapa, en ek mun þreyta við Gljúfra-Geir. Flestra mun nú neyta verða. Snati, þú skalt móti kerlíngu, en Sólrún skal sjá á leik várn. Ok þegar Kolbjörn kom, þá ráðast þeir allir á ok glíma allsterkliga. Snati fór upp á hamarinn þar sem Skrukka var undir niðri ok velti ofan stóru grjóti at henni. Hón grettist ekki vel (við) þetta (ok) færði upp á móti steinana. Svá lauk með þeim, at Snati velti einu stóru bjargi, ok kom þat á hrygg kerlíngar þá er hón ætlaði at taka upp einn stein, svá hann gekk í sundr. ok dó af því. Gestr ok Gljúfra-Geirr gengust fast at, ok lauk svá, at Gestr leiddi hann á mjöðm, ok brá honum á lopt með svå miklu afli, at höfuðit kom fyrst niðr á honum svá hart, at haussinn brotnaði í smán mola, ok var dauðr innan lítils tíma. Þá kemr Gestr þar at sem Þorvaldr var búinn til falls, ok hjó Gestr undan Gapa báða fætrna fyrir ofan knè. Fèll Gapi þá á bak aptr. Þeir Þórðr ok Kolbjörn áttu mikinn atgang ok harðan, ok lauk með því at Þórðr fèll. Í því kom Gestr at, ok þreif í hjassann á Kolbirni, en

setti knèin i bakit svá hart at þegar gekk úr hálsliðinum; hratt Gestr honum þá ofan af Þórði. Stóð Þórðr þá upp, ok var mjök stirðr af handagangi Kolbjarnar. Deytt hafði Þorvaldr þá Gapa. Gestr mælti; nú er svá komit, Sólrún, at vær höfum sigr fengit, en þú ert frelst úr trölla höndum. þèr eigum (vèr) þat at kenna, segir Þórðr, ok vil ek at þú kjósir þèr laun fyrir sjálfr. Eigi vil ek fè ykkat bræðra hafa, (segir Gestr,) en ef ykkr þikkir nokkurra launa vert vera, þá taki þit mèr far til Noregs, þvíat mèr er forvitni á at sjá þann konúng er þar ræðr fyrir, er svá mikit er af sagt. Þeir sögðust þat skyldu gera. En nú vil ek ekki dyljast fyrir ykkr, segir Gestr, at ek er bróðir ykkar sammæddr; munu vær hèr nú skilja fyrst at sinni; skal ek koma at vári til skips. Fór Gestr þá sinn veg, en þeir bræðr sinn veg með Sólrúnu heim í Túngu, ok sögðu allt frá sínum ferðum, sem farit hafði, ok þótti flestum sem heyrðu, Þórðr mikla lukku á hafa haft.

17. Kolbeinn hèt stýrimaðr, er skip átti uppi á Borðeyri í Hrútafirði, þar rèðu þeir bræðr til, ok tóku þar Gesti far at sumri. Lètu þeir í haf þegar byr gaf. Þar fór utan Gestr ok hundr hans Snati, Þórðr ok Sólrún ok Þorvaldr. Þeim gaf vel byri ok kvómu við þrándheim; þá rèð Ólafr konúngr fyrir Noregi Tryggvason. Þeir bræðr kvómu á hans fund ok Sólrún með þeim. þeir kvöddu konúng ok báðu hann vetrvistar, en konúngr spurði hvárt þeir vildi skírast láta. Þeir lètu seint við því. Þat fór þó fram, at þeir vóru skírðir ok svá Sólrún. Vóru þau með konúngi um vetrinn i góðu yfirlæti. Gestr sat eptir við skip, ok hafði hrauktjald. Hundr hans var hjá honum en ekki manna. Þat var einn dag, at konúngr var kátr ok mælti til Þórðar: hvar fèkk þú konu þessa hina vænu? Út á Íslandi, segir Þórðr. Hversu gamall maðr ertú? Þórðr segir: nítján vetra er ek. Konúngr

segir: þú ert röskligr maðr, eða hvar þikkist þú í mestri mannraun verit hafa? Út á Íslandi, segir Þórðr, þá er ek fèkk konu þessar. Hverr barg þèr? — Sá heitir Gestr, segir Þórðr. Fór hann híngat, sagði konúngr. Þórðr sagði þat satt vera; en vil ek segja yðr, hvat ek vil af yðr þiggja; ek vil gerast hirðmaðr yðvarr. Kom þú þá Gesti á minn fund ef þú vilt gerast minn maðr. Síðan fór Þórðr á fund Gests; var hann tregr til þess ok mælti: ekki er ek fúss til at finna konúng, þvíat mèr er sagt, at hann sè svá ráðgjarn, at hann vill öllu ráða, jafnvel því á hvern menn trúa. Verðr svá um síðir at Gestr ferr með Þórði ok kemr á konúngs fund. Gestr heilsar á konúng, en konúngr tekr honum vel. Gestr spurði: hvat eyrindum, herra, hafi þèr við mik? Konúngr mælti: slík sem við aðra menn, at þú trúir á sannan guð. Gestr segir: alls ekki er mèr um at láta þá trú, sem hinir fyrri frændr mínir hafa haft; er þat hugboð mitt, ef ek læt þann sið, at ek muna ekki lengi lifa. Konúngr mælti: líf manna er í guðs valdi, en þat skal öngum manni hlýða í mínu ríki álengdar, at fága heiðinn sið. Gestr segir: líkligt þikki mèr, herra, at yðarr siðr muni betri vera, en fyrir heit eðr kúgan læt ek ekki mína trú. Svá skal vera, segir konúngr, þvíat þann veg lízt mèr á þik, at þú munir af sjálfs þíns hendi vilja heldr þann átrúnað niðr leggja, en nokkurs manns harðindum, ok muntú ekki öllúngis giptúlauss vera, ok vert með oss í vetr velkominn. Gestr þakkaði konúngi sín ummæli, ok segist þat munu þiggja. Var Gestr með konúngi um hríð, ok ekki lengi, áðr hann var primsigndr. Líðr nú svá fram til jóla.

18. Ok atfangakveld fyrir jól sat konúngr í hásæti sínu ok öll hirðin, hverr í sínu rúmi; vóru menn glaðir ok kátir, þvíat konúngr var hinn glaðasti. Ok er menn höfðu

drukkit um stund gekk maðr inn í höllina, hann var mikill ok illiligr, skrámleitr ok skoteygr, svartskeggjaðr ok síðnefjaðr. Þessi maðr hafði hjálm á höfði ok var í hríngabrynju ok gyrðr sverði. Gulligt men hafði hann á hálsi ok digran gullhríng á hendi; hann gengr innarr eptir höllinni, ok at hásæti konúngs; öngvan mann kveðr hann. Mönnum fanst mikit um sýn þessa. Eingi maðr beiddi hann orða; ok er hann hafði staðit um stund fyrir konúngi, mælti hann: hèr hefi ek svá komit, at mèr hefir sízt nokkurr greiði boðinn verit af jafnmiklu stórmenni; skal ek vera því örvari, at ek skal bjóða til eignar gripi þessa, sem ek hefir hèr nú, þeim manni sem þá þorir at sækja til mín, en sá mun engi hèr inni vera. Síðan gekk hann í burt, ok varð illr þefr í höllinni; varð öllum at þessu mikill ótti. Konúngr bað menn sitja kyrra, þar til sem þefr sjá þyrri, ok gerðu menn svá sem konúngr bauð. En er skoðat var, lágu margir menn sem hálfdauðir ok í óviti, þar til er konúngr kom sjálfr til ok less yfir þeim. Dauðir vóru allir varðhundar nema Vígi einn ok Snati hundr Gests. Konúngr mælti: hvat ætlar þú, Gestr, hverr maðr sjá mun vera, er hèr kom inn? Gestr segir: ekki hefi ek sèt hann fyrr en sagt hefir mèr verit af frændum mínum, at konúngr hefir heitið Rakni,[1] ok af þeirri sögn þikkjumst ek kenna hann; hefir hann ráðit fyrir Hellulandi[2] ok mörgum öðrum löndum. Ok er hann hafði lengi löndum ráðit lèt hann kviksetja sik með ccccc[3] manna á Raknaslóða[4]; hann myrði föður sinn ok móður, ok mart [annat fólk;[5] þikki

1) *saal.* Hd. *paa dette Sted*; Ragnar 165 (ur.); Raknar, 486 *og* Hd. *nedenfor saal. har ogsaa* Hálfdanars. Eysteinssonar *cap. 26.*

2) 486, 165; Hollsetulandi, Hd.

3) *saal.* 486, dccc, Hd. *see nedenfor* (S. 42).

4) Raknarsslóði, Halfd. saga; Raknasloða Hd.

5) [hefir hann illa gjört, 486.

mèr ván, at haugr hans muni vera norðarliga í Hellulands óbygðum at annarra manna frásögn. Konúngr mælti: íkligt þikki mèr, at þú munir satt segja; er þat nú bæn mín, Gestr, segir konúngr, at þú sækir gripi þessa. Forsendíng má þat heita, herra, segir Gestr, en eigi mun ek undan skorast, ef þèr búit ferð mína eptir því sem þèr vitið mèr á liggja. Konúngr segir: ek skal þar allan hug á leggja, at þín ferð takist vel. Síðan bjóst Gestr. Konúngr fekk honum xl. járnskó, ok vóru dyndir[1] innan. Hann fèkk honum seiðmenn tvá eptir bæn Gests, hèt hann Krókr en hón Krekja, síðan fekk hann honum til fylgðar prest þann er Jósteinn hèt, hann var ágætr maðr ok mikils virðr af konúngi. Ekki kvaðst Gesti um hann vera. Konúngr mælti: þá mun hann þèr bezta raun gefa, er þèr liggr mest á. Því skal hann eigi fara þá, segir Gestr; mörgu geti þèr nærri, en eigi þikki mèr á manni mega sjá, ef hann dugir vel í mikilli raun. Sax gaf konúngr Gesti, ok sagði þat bíta mundu, ef til þyrfti at taka; dúk gaf hann honum, ok bað hann vefja honum um sik áðr en hann gengi í hauginn. Konúngr gaf Gesti kerti, ok sagði sjálft kveikjast mundu, ef því væri á lopt haldit, þvíat svart mun í haugi Raknars[2] en vertú eigi lengr en lokit er kertinu, ok mun þá hlýða. Þriggja missera björg fekk konúngr Gesti. Síðan sigldi hann norðr með landi, ok allt fyrir Hálogaland ok Finnmörk til Hafsbotna, ok er þeir kvómu norðr fyrir Dumbshaf kom maðr af landi ofan ok rèðst í ferð með þeim; hann nefndist Rauðgrani, hann var eineygr; hann hafði bláflekkótta skautheklu[3] ok knepta niðr í milli fóta sèr. Ekki var Jósteini presti mikit um hann. Rauðgrani taldi heiðni ok forn-

---

1) *saal.* Hd. *og* 486.
2) *saal.* Hd. *her og nedenfor.*
3) Gjætn. skauthettu, Hd. 165, 486.

eskju fyrir mönnum Gests og taldi þat bezt at blóta til heilla sèr. Ok einn dag er Rauðgrani taldi fyrir þeim slíka vantrú, reiddist prestr, ok þreif róðukross, ok setti í höfuð Rauðgrana; hann steyptist fyrir borð, ok kom aldri upp síðan; þóttust þeir þá vita, at þat hafði Óðinn verit. Fátt gaf Gestr sèr at presti. Litlu síðarr kvómu þeir við Grænlands óbygðir, var þá komit at vetri. Þeir vóru þar um vetrinn. Hjá björgum nokkurum sjá þeir stengr ij [af gulli[1] ok fastan við ketil fullan með gull. Gestr sendi Krók ok Krekju at sækja stengrnar ok ketilinn; en er þau kvómu at fram ok ætluðu at taka, þá rifnaði jörðin undir fótum þeim, ok svalg hón þau, svá at jörðin luktist fyrir ofan höfuð þeim, en horfit allt saman ketillinn ok stengrnar, er til var litið. Gestr vakti hverja nótt í skáladyrum um vetrinn. Þat var eina nótt,[2] at griðúngr ógurligr kom at skálanum ok öskraði mjök ok lèt illiliga. Gestr rèðst í móti bola, ok hjó til hans með öxi. Boli hristi sik við en ekki beit á, en öxin brotnaði. Þá tók Gestr báðum höndum í hornin á bola, ok glímdu þeir heldr sterkliga; fann Gestr, at honum varð aflafátt við þenna ófagnað. Ætlaði hann at færa hann þá at skálaveggnum ok stanga hann þar upp við. Í því kom Jósteinn prestr at, ok slær með róðukrossi á hrygg bola; við þat högg steyptist boli í jörð niðr, svá aldri varð síðan mein at honum. Ekki bar þar fleira til tíðinda.

19. At vári fóru þeir þaðan, ok bar hverr sínar vistir. Þeir gengu fyrst eptir landinu milli vestrs ok útsuðrs, síðan sneru þeir um þvert landit; vóru fyrst jöklar, ok þá tóku til brunahraun stór; tóku þeir þá járnskó þá, er konúngr hafði fengit þeim, [þeir vóru xl en menn vóru xx ok Gestr

1) [*tf.* 486.
4) jolanott. 165.

um fram[1]. En er allir höfðu tekit skóna nema Jósteinn prestr, gengu þeir á hraunit. Ok er þeir höfðu gengit um stund, varð prestr ófærr; gekk hann þá blóðgum fótum hraunit. Gestr mælti þá: hverr yðar sveina vill hjálpa skráfinni[2] þessum, svá hann komist af fjallinu? Engi tók undir þat því at allir þóttust nóg bera. Þat mun ráð at hjálpa honum, segir Gestr, því at konúngr mælti þar mikit um; en oss mun þat bezt gegna, at bregða ekki af hans ráðum, ok far nú híngat, prestr, ok sezt upp á bagga minn, ok haf með þèr föng þín. Svá gerir prestr. Gestr gekk þá fyrir, ok gekk þá harðast. Svá gengu þeir upp þrjá daga. En er hraunit þraut kvómu þeir at sjó fram; þar var hólmr stórr fyrir landi; út til hólmsins lá eitt rif mjótt ok langt. Þar var þurt um fjöru, ok svá var þá þeir kvómu at. Gengu þeir þá út í hólminn, ok þar sá þeir standa haug einn stóran. Segja sumir menn, at sjá haugr hafi staðit norðarliga fyrir Hellulandi, en hvar sem þat hefir verit, þá hafa þar engar bygðir í nánd verit.

20.[3] Gestr lèt fara til at brjóta hauginn um daginn. At kveldi höfðu þeir brotið glugg á hauginn með atgangi prests, en um morguninn var hann gróinn sem áðr. Brutu þeir dag annan, en at morni var sem fyrr. Þá vildi prestr vaka í haugbrotinu, sat hann þar alla nóttina, ok hafði hjá sèr vígt vatn ok róðukross; ok er á leið at miðri nótt sá hann [Raknar,[4] ok var hann fagrbúinn; hann bað prest fara með sèr, ok kveðst góða skyldu hans ferð gera,[5] ok er hèr bríngr, er ek vil gefa þèr ok men. Öngu svarar

---

1) [*tf.* 486.

2) *saal.* Hd. skrá finn, 486; *nu sige vi* skraffinnr,

3) *Her beg. det andet Blad af* Add. 20 (Vatnshyrna) *men den störste Deel Bladet er bortskaaren, sml. S. 16. Note 3.*

4) hvar Raknar ríðr, 486.

5) ok víngast með þik, *tf.* 486.

prestr, ok sat kyrr sem áðr. Mörg fádæmi sýndust honum [bæði tröll ok óvættir, fjándr ok fjölkunnigar þjóðir, sumir blíðkuðu hann, en sumir ógnuðu honum[1] at hann skyldi þá heldr burtu ganga en áðr. Þar þóttist hann sjá frændr sína ok vini, jafnvel Ólaf konúng með hirð sinni ok bað hann með sèr fara. Sá hann ok at Gestr ok hans fèlagar bjugg-ust ok ætluðu í burt, ok kölluðu at Jósteinn prestr skyldi fylgja þeim ok flýta sèr í burt. Ekki gaf prestr um þetta, ok hvat undrum sem hann sá, eðr hversu ólmliga þessir fjándr lètu, þá kómu þeir þó aldri nærr presti [sakir vatns þess,[2] er hann stökti. Í móti degi hurfu þessi undr öll af, kom Gestr þá ok hans menn til haugsins. Ekki sá þeir presti brugðit um nokkut. Þa lètu Þeir Gest síga í hauginn, en prestr ok aðrir menn hèldu festi. Fimtigi faðma var niðr á haugsgólfit. Vafit hafði Gestr sik með dúkinum konúngs naut en gyrt sik með saxinu. Kertið hafði hann í hendi, ok kveiktist þat þegar hann kom niðr. Gestr sá nú víða um hauginn. Hann sèr skipit Slóðann ok í v hundruð manna. Þat skip hafði svá stórt verit, at þat var eigi fært við færri menn. Þau vóru kölluð jafnstór ok Gnoðin er Ásmundr stýrði. Gestr gekk þá upp í skipit; sá hann, at þeir vóru allir búnir til uppstöðu, áðr en kertisljósit kom yfir þá, ok þá gátu þeir hvergi hrært sik, ok blöskruðu augunum ok blèsu nös-unum. Gestr hjó af þeim öllum höfuð með saxinu ok beit þat sem í vatn brygði. Rænti hann drekann öllu skrúði ok lèt upp draga. Síðan leitaði hann Raknars; fann hann þá niðrgang í jörð; þar sá hann Raknar sitja á stóli. Furðu var hann illiligr at sjá; bæði var þar fúlt ok kalt. Kistill[3] stóð undir fótum hans fullr af fè, men hafði hann á hálsi sèr

1) [tf. Add. 20, 486.
2) [en tók til þeirra vatnið þat, 486.
3) ketill Vatnsh., 486.

harðla glæsiligt ok digran gullhríng á hendi. Í brynju var hann ok hafði hjálm á höfði ok sverð í hendi. Gestr gekk at Raknari, en kvaddi hann virðuligri konúngs kveðju, en Raknarr hneigði honum á móti. Gestr mælti: bæði er, at þú ert frægr, enda þikki mèr þú allítrligr vera at sjá, hefir ek langan veg sótt þik heim, muntu mik ok góð erindislaun láta hafa, ok gef mèr[1] gripuna þá hina góðu, er þú átt, skal ek þá víða þína risnu bera. Raknarr veik þá at honum höfðinu með hjálminum; tók Gestr hann, ok því næst færði Gestr hann ór brynjunni, ok var Raknarr hinn auðveldasti; Alla gripuna hafði hann af Raknari nema sverðit, þvíat þá er Gestr tók til þess spratt Raknarr upp, ok rann á Gest. Hvártki fann þá á honum, at hann væri gamall nè stirðr. Þá var ok albrunnit kertið konúngs nautr. Tryldist Raknarr svá, at Gestr varð allr forviða fyrir. Þóttist Gestr þá sjá vísan dauða sinn. Upp stóðu ok allir þeir sem í skipinu vóru. Nógt þótti Gesti þá um vera, kallaði hann þá á Bárð feðr sinn, ok litlu síðarr kom hann ok orkaði Bárðr öngu; færðu þeir hinir dauðu hann í reikuð, svá hann náði hvergi í nánd at koma. Þá hèt Gestr á þann er skapat hafði himin ok jörð, at taka við trú þeirri, er Olafr konúngr boðaði, ef hann kæmist í burtu lífs ór hauginum. Fast herti Gestr þá á Ólaf konúng, ef hann mætti meira en sjálfum sèr, þá skyldi hann duga honum. Eptir þat sá Gestr Ólaf konúng koma í hauginn með ljósi miklu. Við þá sýn brá Raknari svá, at ór honum dró afl allt. Þá gekk Gestr svá fast at, at Raknarr féll á bak aptr með tilstilli Ólafs konúngs. Þá hjó Gestr höfuð af Raknari ok lagði þat við þjó honum. Allir hinu dauðu settust niðr við kvómu Ólafs konúngs, hverr í sitt rúm. At þessu starfi enduðu hvarf Ólafr konúngr at sýn frá Gesti.

21. Þat er nú at segja frá þeim, er á hauginum vóru,

1) *Her slutter* Add. 20 (Vatnshyrna).

at þann tíma sem þessi undr vóru sem nú var frá sagt, brá þeim svá við, at þeir ærðust allir nema prestr,[1] hann fór aldri frá festinni. En er Gestr knýtti sik í festina, þá dró prestr hann upp[2] með allan fjárhlut ok fagnaði Gesti, ok þóttist hann ór helju heimt hafa. Fara til þar er menn þeirra vóru ok hèldust á,[3] ok stökti prestr á þá vatni; tóku þeir þegar vit sitt, bjuggust þeir í burt. Nálíga þótti þeim jörðin skjálfa undir fótum þeim; gekk ok sjórinn yfir allt rifit með svá stóru boðafalli, at mjök svá gekk sjór yfir allan hólminn. Aldri hafði Snati gengit frá hauginum meðan Gestr var inni. Nú þóttust þeir eigi vita hvar þeir skyldu rifsins leita. Vísaði hann Snata út á boðana, en rakkinn hljóp þegar út á boðana á kaf þar sem rifsins var ván, ok stóðst eigi kýngi Raknars ok druknaði hundrinn þar í bárunni. Þat þótti Gesti hinn mesti skaði. Jósteinn prestr gekk þá fram fyrir þá, ok hafði róðukross í hendi en vatn í annarri ok stökti því. þá klupt-ist[4] sjórinn svá at þeir gengu þurrum fótum á landi. Fóru þeir allan hinn sama veg[5]. Gestr færði konúngi alla gripuna[6] ok sagði allt sem farit hafði. Konúngr bað hann þá skírast láta. Gestr sagðist því heitit hafa í Raknarshaugi; var [þá ok svá gert.[7] Hina næstu nótt eptir er Gestr var skírðr, dreymdi hann, at Bárðr faðir sinn kæmi til hans ok mælti: illa hefir þú gert, er þú hefir látið trú þína þá er lang-feðgar þínir hafa haft, ok látið kúga þik til siðaskiptis

1) ok hundr Gests, tf. 486.

2) með styrk hundsins, tf. 486.

3) vóru þeir sem hálfdauðir ok vínglaðir, tf. 486.

4) klufðist, 486.

5) ok mættu engum undrum, bar þá ok ekki til tíðinda tf. 486.

6) *Her beg. Membranfragm.* 551. *a.* 4to.

7) [þótti Gestr af því hinn frægasti maðr ok svá Jósteinn prestr, ok voru í stórum kærleik hja konúngi. Nú sem konúngr heyrði heitstrengíng Gests, varð hann því glaðr, ok lèt kenna honum rètta trú, ok þa hann var fullnuma í kristilegum lærdómi, lèt hann skíra sik, en tf. 486.

[sakir litilmensku,[1] ok fyrir þat skaltú missa bæði augu þín.[2] Tók Bárðr þá at augum hans[3] heldr óþyrmiliga, ok hvarf síðan. Eptir þetta, er Gestr vaknaði, hefir hann tekit augnaverk svá strangan, at hinn sama dag sprúngu þau út bæði. Síðan andaðist Gestr í hvitaváðum,[4] þótti konúngi þat hinn mesti skaði.

22. Um sumarit eptir bjuggust þeir bræðr Þórðr ok Þorvaldr til[5] Íslands[6] ok kómu skipi sínu á Borðeyri í Hrútafirði; fóru síðan heim til föður síns ok þóttu hinir mestu menn. Þórðr bjó í Túngu eptir föður sinn, en Þorvaldr fèkk Herdísar,[7] dóttur Óspaks af Óspaksstöðum ok bjó at Hellu[8] i Helludal. Þeir vóru systkinasynir [Þorbjörn faðir þeirra, ok Hjalti Þórðarson, er nam Hjaltadal. Synir Hjalta vóru þeir Þórðr[9] ok Þorvaldr, sem fjölmennast erfi hafa[10] haldit á Íslandi eptir föður sinn, þar vóru xij hundruð boðsmanna. Þar færði Oddr breiðfirðíngr drápu, sem hann hafði ort um Hjalta[11]. Áðr hafði Glúmr Geirason stefnt Oddi um ányt til Þorskafjarðar þíngs. Þá fóru þeir bræðr norðan á skipi til Steingrímsfjarðar. Þar kómu þeir bræðr Þorbjarnarsynir ór Hrútafirði til móts við þá, ok gengu allir samt norðan yfir heiðina þar sem heitir Hjaltdælalaut. En er þeir kómu á þíngit vóru þeir svá [vel búnir, at menn hugðu þar væri komnir Æsir.[12] Þá var þetta kveðit:

---

1) ok ertu nú hin mesta ættar skömm vorðin, *tf.* 486.
2) skal ek svá launa þér þessar tiltekjur, tf 486.
3) ok hvörmunum tf. 486; ok herðum 551.
4) sjö dögum síðar en hann vár skírðr, tf. 165; 486.
5) *Her sl. Mbr.* 489.; *Slutningen af Sagaen er tagen efter* 158 folio
6) ok Sólrún með þeim tf. 551
7) Ásdísar 551, 165; Þórdísar, 486
8) Hellulandi, 165; 551.
9) [*mgl. i* 551, 165.
10) hefir, 551.
11) Þorvald 551, 165 (ur.).
12) ferðlúnir ok dasaðir, at menn hugðu, át þeir mundu öngvu gegna kunna, ok vörðu þeir *o. s. v.* 165 *som undlader Verset* (*forvansket*).

Manngi hugði manna
morðkannaðir annat
ísarns meiðr en Æsir
almærir þar færi,
þá (er) á Þorskafjarðar
þíng með[1] ennitínglum
holtvartaris[2] Hjalta
harðfengs synir gengu[3]

Vörðu þeir mál fyrir Odd með styrk þeirra bræðra ór Hrútafirði. Síðan fóru hvárirtveggju með hinum mestu(m) kærleikum heim aptr til heimkynnis síns ok skildu þeir [frændr með mestu kærleikum[4]. Er mikil ætt komin af þeim Þorbjarnarsonum ok svá Hjaltasonum. Ekki er getið at Gestr Bárðarson hafi nokkur börn átt, ok [lýkr hèr sögu Bárðar Snæfellsáss ok Gests sonar hans.[5]

1) þeirra *tf.* Hd.
2) holt valltarins Hd. 486 (ur.).
3) *Verset mgl. i* 551, 165 *o. s. v.*; *sml.* Landn. 3. 10.
4) [486 þaðan af. Hd.
5) [*saal. slutter ogsaa* 551; 486.



# Víglundar saga.

[1] Haraldr hinn hárfagri son Hálfdanar svarta[2] var þá einvaldskonúngr yfir Noregi, er saga þessi gerðist, hann tók úngr konúngdóm. Haraldr var allra manna vitrastr ok vel búinn at íþróttum öllum þeim er konúngligri tign byrjaði. Konúngr hafði marga hirð um sik, ok valdi þar til ágætamenn þá sem reyndir vóru at harðfengi, ok mörgum frægðarverkum. Ok sem konúngr girntist at hafa með sèr hit bezta mannval, svo vóru þeir ok betr haldnir en nokkurir menn aðrir í því landi, þvíat konúngr sparði hvorki við þá fè nè fulltíng, ef þeir kynni til at gæta, en eigi var hitt þó með minna móti, at þrifust engir (er) í móti gerðu hans vilja, sumir urðu landflótta en sumir drepnir; kastaði konúngr þá sinni eign á allt þat, er þeir áttu eptir, en margir mikils háttar menn flýðu úr Noregi, ok þoldu eigi álögur konúngs, þeir sem vóru af stórum ættum, ok vildu heldr fyrirláta óðul sín ok frændr ok vini en liggja undir þrælkan ok ánauðaroki konúngs, ok leituðu mjök til ýmissa landa. Um hans daga bygðist mjök Ísland, því at þangat leituðu margir þeir sem eigi þoldu ríki Haralds konúngs.

2. Þórir hèt hersir,[3] er ríki átti at ráða í Noregi, hann var ágætr maðr ok kvæntr; hann hafði fengit ágætrar

1) *Membranen* AM *510 4to er lagt til Grund*, *og confereret med* AM *551 a. 4to* (*mbr.*), *og 160 folio* (*chart.*)

2) *tf.* 551.

3) *saal. ogsaa* 551; Jarl, 160.

konu. Jarl[1] ól við konu sinni eina dóttur barna, er Ólöf hèt, hún var þegar á únga aldri furðukurteis, hún var allra kvenna fríðust sköpuð þeirra er þá vóru í Noregi, ok því var lengt nafn hennar, ok var hún kölluð Ólöf geisli. Jarl unni mikit dóttur sinni, ok var svá vandlátr um hana, at enginn karlmaðr mátti tala við hana. Jarl lèt gera henni eina skemmu; þat hús lèt hann vanda með allri smíð. Skemman var víða grafin ok gagnskorin, ok rent gulli í skurðina. Þetta herbergi var þakit með blýi ok steint allt innan. Skíðgarðr hár var um skemmuna ok læst grindhlið með sterkum járnhurðum. Eigi var þetta hús miðr vandat utan en innan. Þessa skemmu bygði jarlsdóttir ok hennar þjónustukonur. Jarl sendir ok eptir þeim konum sem hann vissi kurteisastar, ok lætr kenna dóttur sinni allar þær kvennlistir, er burðugum konum byrjaði at kunna. Þat hugsaði jarl sèr sem honum gafst, at svo skyldi hans dóttir bera af öllum konum hannyrðir, sem hún var hverri þeirra fríðari, En þegar hún hafði aldr til, þá völdust til margir ágætir menn at[1] biðja hennar. Jarl var mjök kostvandr fyrir hennar hönd, ok kom sá engi, at hann vildi hana gipta, vísaði hann þeim frá með hæverskligum orðum, en öngan smáði hún með sínum orðum eðr gerðum, ok leið svo fram um hríð at hún hafði almanna lof.

Nú skal nefna fleiri menn til sögunnar. Ketill er maðr nefndr, hann átti at ráða fyrir Raumaríki; hann var mikilhæfr maðr ok ríkr at auðæfum, vitr ok vinsæll. Ketill var kvongaðr ok hèt Íngibjörg kona hans, ok var hún af dýrum ættum. Þau áttu tvo sonu, hèt annarr Gunnlaugr en annarr Sigurðr. Þeir bræðr áttu kenníngarnafn, var Gunnlaugr kallaðr ofláti en Sigurðr spaki. Ketill lèt kenna sonum sínum allar þær íþróttir sem þá var siðr at nema, því

1) *saal.* Alle.

at Ketill var betr búinn at íþróttum en flestir menn aðrir. Þeir hèldu sèr leiksveina ok gáfu þeim gull ok aðra góða gripi; riðu þeir bræðr jafnan út með sína menn at skjóta dýr ok fugla, því at þeir vóru hinir mestu atgerfismenn. Ketill bóndi var hinn mesti bardagamaðr, hann hafði áttar fjórar ok xx hólmgöngur, ok hafði í öllum sigr. Vingott var með þeim Haraldi konúngi ok Katli. Ketill var málamaðr svo mikill, at aldri átti hann því máli at skipta, at hann eyddi eigi, við hvern sem hann átti at skipta, því at þegar hann tók at tala, þá þótti svo (vera) sem hann talaði. Konúngr bauð Katli at taka hærri nafnbót, ok segir honum þat vel sæma, bæði sakir ríkdóms ok margra hluta annarra, en Ketill vildi þat eigi, segist heldr vildu vera einfaldr bóndi ok halda sik til jafns við þá sem meiri nafnbætr hefði. Ketill unni svo mikit konu sinni, at hann mátti hennar ekki mein vita, leið svo fram um tíma.

3. Svo bar til einn tíma, at Haraldr konúngr bauð út leiðangr ok ætlaði suðr með landi, vandaði hann þá ferð, bæði at skipum ok mönnum. Ketill fèkk til sonu sína, at fylgja konúngi ok margt frítt lið, en sjálfr hann sat heima, því hann var þá hniginn at aldri. Þegar konúngr var búinn siglir hann suðr með landi, en er hann kom suðr á Rogaland, rèð þar fyrir jarl sá, er Eirekr hèt, hann var mikill höfðíngi, ok vinsæll af sínum mönnum. En er hann frèttir hans tilkvómu, þá lèt hann búa fagra veizlu; ok til þeirrar veizlu býðr hann konúngi með öllu liði sínu, ok þat þá konúngr, ok gekk á land með lið sitt, en jarl leiddi konúng heim með allri hirð sinni til hallar með allrahanda hljóðfærum með söngum ok strengleikum ok allskonar skemtan, er til kunni at fá; með þessum fagnaði leiddi jarl konúng til hallar, ok setti hann í hásæti, ok var þar en fegrsta veizla, ok var konúngr hinn kátasti ok allir hans menn, því at jarl sparði ekki af at veita

konúngi með blíðu, ok var hinn bezti drykkr fram borinn, ok urðu menn skjótt drukknir. Konúngr setti sonu Ketils jafnan nær sèr, ok höfðu mikil metorð af konúngi. Jarl stóð frammi fyrir konúngi sjálfr ok þjónaði at konúngs borði, ok efldist þá mikil gleði í höllunni; skipaði konúngr þeim bræðrum at skenkja, en hann setr jarl í hásæti hjá sèr, en þeir bræðr gerðu þegar sem konúngr bauð ok fengu þar mikla virðíng fyrir sína hæversku. En er borð vóru upp tekin, lætr jarl fram bera góða gripi, er hann valdi konúngi, ok öllum hans mönnum gaf hann nokkura góða gripi, ok at enduðum gjöfunum lætr jarl fram bera eina hörpu; annarhvorr hennar strengr var með gull[1] en annarr með silfr;[2] var þetta smíði hit virðuligasta; seildist konúngr í móti ok tók at slá; en þessi harpa bar svo mikit hljóð, [ok fagrt[3] at allir undruðust, ok þóttust eigi fyrr slíkt heyrt hafa. (Þá mælti) jarl: þat vilda ek, herra, at þèr gengit með mèr, at skemta yðr, vil ek sýna yðr alla eigu mína úti ok inni, akra ok aldingarða. Konúngr gerði sem jarl beiddi, ok gekk til ok sá, ok leizt vel upp á. Þeir gengu þá at einum eplagarði, þar stóð einn fagr lundr,[4] en undir þeim lundi lèku þrír piltar; þeir vóru allir vænir ok bar þó einn af öllum; þeir sátu at tafli ok lèku tveir[5] til jafns við einn; þá þóttust þeir verða varhluta fyrir honum ok rótuðu fyrir honum taflinu. Þá þyktist sá við er betr gekk, ok sló sinn pústr hvorn þeirra. Síðan reiddust þeir ok glímdu, ok vóru ij í móti einum ok skakkaði eigi minna um glímuna en um taflbrögðin. Þá bað jarl þá hætta ok vera sátta, ok svo gerðu þeir, ok tefldu síðan sem áðr. Konúngr

1) rauða gull 160, (511).
2) úr hvítu silfri, 160, 511.
3) [*tf*, 160, (511).
4) með fríðu blómi ok fögrum eplum *tf*. 160, (511).
5) eigi *tf*. 160, (511).

ok hans fylgd[1] fór heim til hallar ok settust í sín sæti. Þat var auðfundit á konúngi, at honum fanst mikit um hinn únga mann, ok frèttir jarl eptir hvat sveinum þeir væri. Þeir eru synir mínir, segir jarl. Eiga þeir eina móður? segir konúngr. Eigi er þat, segir jarl. Þá frèttir konúngr at hvat þeir heita. Jarl segir: Sigmundr ok Helgi, Þorgrímr hinn þriði, ok er frilluborinn[2]. En litlu síðarr kvómu þeir í höllina bræðr allir; gekk Þorgrímr síðast þeirra bræðra. Svo var um önnur metorð þeirra, at hann var minst metinn. Jarl kallar þá sveinana til sín ok bað þá ganga fyrir konúng; þeir gerðu svo, ok kvöddu þeir konúng. En er þeir kvómu fyrir konúng, þá tók Þorgrímr sinni hendi hvorn þeirra bræðra, ok veik þeim frá sèr, ok gekk fram á millum þeirra, ok stè upp á fótborðit ok kvaddi konúng ok hvarf til hans, en konúngr tók sveininn brosandi ok setti hann niðr hjá sèr, ok frètti hann at móður sinni, en hann kveðst vera systurson Þóris hersis[3] úr Sogni. Konúngr rendi gullhríngi af hendi sèr ok gaf Þorgrími. Síðan gekk Þorgrímr aptr til bræðra sinna, en veizlan stóð með hinni mestu sæmd, allt þar til er konúngr sagðist vilja í burt[4]. En sakir stórmensku þeirrar, er þú hefir mèr veitt, þá skaltú kjósa þèr sjálfr laun fyrir. Jarl varð glaðr við þetta, ok kvað, at konúngr mundi taka at sèr Þorgrím son sinn, ok segir sèr þat þikkja peníngum betra, þvíat öll sú gerð, er þèr gerit mèr, þá þikki mèr sú miklu betri, er þèr gerit honum. Vilda ek ok þat, at hann færi til yðvar, at ek ann honum mest allra sona minna. En konúngr játar því. Síðan ferr konúngr í burt ok Þorgrímr med honum; var hann þegar

1) stóð ok horfði á leik þeirra ok þótti mikit gaman at því, ok gengu síðan *tf.* 160, (511).

2) en móðir hans var miklu fremri *tf.* 160. (511).

3) *saal. Alle.*

4) *Her mgl. 1 Blad i* 551. *a*.

hinn auðmjúkasti í allri þjónustu við konúng, ok öfunduðu hann þegar margir menn konúngs.

4. Einn tíma er þess getið, at konúngr fór at veizlum til þess manns er Sigurðr hèt;[1] þessi veizla var vönduð mjök at öllum föngum. Konúngr skipar Þorgrími at standa frammi um daginn at skenkja sèr ok sínum vildarmönnum. Þótti hans mönnum mörgum þat við of hversu konúngr lagði mikit til Þorgríms í allri virðíngu. Sigurðr átti frænda einn er Grímr hèt, hann var ríkr maðr at peníngum; hann var metnaðarmaðr svo mikill, at honum þótti flest allt lágt hjá sèr. Hann var í veizlu þessi ok skipaði öndugi á hinn æðra bekk. Þorgrímr þjónaði um daginn, ok þá er Þorgrímr bar eitt stórt drykkjuker fyrir Grím, þá stöplaðist út af kerinu þvíat Þorgrímr drap við fæti, ok kom á klæði Gríms. Hann varð illa við, ok hljóp upp með stóryrðum, ok kvað þat auðsèð, at pútuson væri vanari at geyma svína og gefa þeim soð at drekka, en þjóna nokkrum dugandi mönnum. Þorgrímr reiddist orðum hans, ok brá sverði og lagði í gegnum hann; drógu menn hann undan borðum dauðan. Sigurðr kallaði á sína menn, ok bað þá standa upp, ok hafa hendr á Þorgrími. Konúngr mælti: ger eigi svo, Sigurðr; Grímr mælti til óhelgis sèr, en ek vil bæta manninn fullum bótum, ef þú vilt at ek skipti[2] sem ek vil, þvíat svo mun bezt haldast okkar vinfengi. Varð svo at vera sem konúngr vildi, ok galt konúngr þar allt fèt svo Sigurði líkaði allt vel. Leið nú af veizlan, ok varð ekki til tíðinda fleira. Fór konúngr heimleiðis. Konúngr bauð til sín stórmenni mörgu, fyrstum bauð hann Þóri jarli[3] ok Katli bónda af Raumaríki, var hann orðinn konulaus, þvíat (Ingibjörg) kona hans var þá

1) hann var hersir *ok* mjök auðigr *tf.* 160, (511).
2) skipt, 160, (511).
3) hersi, 160, jarli, 511.

önduð af sængrför ok fæddi dóttur áðr, ok hèt Íngibjörg eptir móður sinni,[1] ok síðan býðr konúngr múg ok margmenni, þvíat eigi skorti þat er hafa þurfti. Kvómu menn eptir því sem boðit var til veizlunnar; fór Ólof geisli til veizlúnnar með föður sínum. Var nú skipat mönnum í sæti ok borinn drykkr ágætr. Þorgrímr gekk um beina, ok fanst mönnum mikit um hversu gildr maðr ok sæmiligr hann var. Hann var sæmiliga klæddr, þvíat konúngr lagði mikla virðíng á hann, ok þótti þat mörgum hans mönnum við of, ok lögðu mikla þykkju á Þorgrím þar fyrir. Lengt var nafn hans, ok var kallaðr Þorgrímr prúði. En er Þorgrímr sá Ólöfu, lagði hann þegar ástarhug til hennar, ok svo fór henni til hans, at hún unni honum, ok fundu þat þó ekki aðrir menn, en þegar þau gátu fengit sèr stund til, þá bar saman fundi þeirra, ok fèll þar hvorutveggja vel í skap; spurði Þorgrímr hversu hún mundi svara, ef hann bæði hennar, en hún kvað engi mótmæli af sinni hendi, ef faðir hennar vildi. Ok at liðinni veizlunni, hóf Þorgrímr upp bónorð sitt ok bað Ólofar geisla. Tók þórir jarl því ekki fljótt, ok skildu við svo búit.

5. Nokkru síðar kom Þorgrímr at máli við konúng, ok bað hann gefa sèr orlof at finna Þóri jarl, en konúngr veitti honum þat. En er Þorgrímr kom til Þóris jarls, var honum þar vel fagnat. Hóf Þorgrímr þá enn upp bónorðit, ok vildi nú til staðins vita hver svör jarl mundi veita, en jarl segist eigi mundu gipta honum dóttur sína; var Þorgrímr þar iij nætr, ok fèll vel á með þeim Ólöfu, ok segja þat nokkrir menn, at þá hafi þau bundit sitt eiginorð. Fór Þorgrímr þá aptr til konúngs at sinni. Fór hann nú í hernað, ok var þá fulltíða at aldri; lá hann í hernaði um sumarit, ok þótti allra manna röskvastr í öllum mannraunum, bæði aflaði hann

1) hans Hd.

í þessari ferð fjár ok frama. Þat var nú þessu næst, at Ketill af Raumaríki var riðinn til Þóris jarls við xxx manna. Þar var þá ok Haraldr konúngr at veizlu. Ketill hóf þá upp bónorð sitt, ok biðr Ólafar geisla sèr til handa, ok með fulltíngi konúngs þá giptir Þórir jarl Ólöfu dóttur sína Katli; lagði Ólöf þar ekki jáyrði til nè samþykki, ok er kaupit skyldi fram fara, þá kvað Ólöf vísu þessa:

Veit ek at gullhríngs gætir
glaðr kveðr betr en aðrir,
sá mun hljómr í heimi
hlökk landa[1] mèr granda;
engi er hirðir[2] hrínga
hvítr svá at ek til líta,
einum[3] vann ek eiða,
ann ek vel björtum manni.

Flestir höfðu þat fyrir satt, at Ólöf mundi heldr viljat átt hafa Þorgrím, en þó varð svo at vera. Var nú ákveðit brúðhlaupit nær þat skyldi vera; átti þat at vera at vetrnóttum heima hjá Þóri jarli. Líðr nú af sumarit. Um haustið kom Þorgrímr úr hernaði; frèttir hann, at Ólöf var gipt; fór hann þegar á konúngs fund, at biðja hann liðveizlu at ná konunni, hvort Þóri jarli líkaði betr eðr verr ok þeim Katli, en konúngr skarst undan allri liðveizlu við Þorgrím, sagði Ketil vera sinn hinn bezta vin. Ráð vil ek leggja til með þèr, segir konúngr, at þú deilir eigi kappi við Ketil; vil ek biðja Íngibjargar dóttur hans þèr til handa, ok sættist svo heilum sáttum. Þorgrímr kveðst þat eigi vilja gera; vil ek halda orð mín ek eiða, er vit Ólöf höfum bundit með okkr; ætlar ek mèr annathvort hana at eiga, ella öngva aðra.

1) hauklanda, 160, (511)
2) hristir, 160, (511).
3) öðrum, 160, (511).

Vili þèr ok ekki mik til styrkja, þá mun ek eigi lengr yðr þjóna. Konúngr segir hann því ráða mundu, en er þat líkast at ekki sè þinn heiðr í öðrum stað (meiri) en með mèr. Síðan tók Þorgrímr orlof af konúngi; gaf konúngr Þorgrími gullhríng at skilnaði, þann er stóð mörk; fór hann síðan til sinna manna. Þá vóru þrjár nætr til þess er brúðhlaupit mundi verða. Gengr Þorgrímr þá á land einnsaman sinna manna, ok þar til er hann kemr í garðinn Þóris jarls. Þat var í þann tíma, er brúðrin var á bekk sett, ok öll drykkjustofan alskipuð af mönnum ok konúngr í hásæti, ok var veizlan hin bezta. Þorgrímr gekk inn í drykkjustofuna, ok á mitt gólfit, ok stendr þar. Svo vóru mörg ljós í stofunni, at hvergi bar skugga á. Allir menn þektu Þorgrím, ok var hann þó mörgum enginn öfusugestr. Þorgrímr mælti: hefir þú, Ketill, keypt Ólöfu? Ketill kvað þat satt vera. Var þat nokkut með hennar ráði gert? segir Þorgrímr. Ek ætlaða, at Þórir jarl mundi sjálfr eiga at ráða dóttur sinni, segir Ketill, ok mundi þat kaup lögligt[1] vera sem hann gerði. Þorgrímr segir: þat segir ek, at vit Ólöf höfum eiða bundit, at hún skyldi öngvan mann eiga nema mik, ok segi hún hvort eigi er svo. En Ólöf kvað þat satt. Þá þikjumst ek eiga konuna, segir Þorgrímr. Hana skaltú aldri fá, segir Ketill, ok hefir ek deilt kappi við þèr meiri menn, ok haldit þó meira en þeir. Þorgrímr mælti: þá þikjumst ek sjá, at þú gerir þetta í konúngs trausti, ok sakir þess þá býð ek þèr á hólm, ok berjumst vit, ok eigi sá konuna, er annan vinnr á hólmi. Þess ætla ek at njóta, at ek er mannfleiri en þú, segir Ketill. Ok sem þeir höfðu þetta at tala, bar svo við, at öll ljósin sloknuðu í stofunni; var þá upphlaup mikil ok hrundníngar. En er ljósit kom var brúðrin horfin, ok svo Þorgrímr. Þóttust

1) lögfullt, 160, (511).

nú allir vita, at hann mundi þessu valda; var þat ok satt, at Þorgrímr hafði tekit brúðina ok bar hana til skips. Menn hans höfðu um búizt eptir því sem hann hafði skipat fyrir, svo at þeir vóru búnir til hafs; vinda þeir nú upp segl sín þegar, at Þorgrímr var búinn, þvíat vindr stóð af landi. Þá var landnáma tími sem mestr á Íslandi; þóttist Þorgrímr vita, at hann mundi eigi geta haldit sik í Noregi eptir þetta verk. Fýstist hann þá til Íslands. Lètu þeir í haf, ok fengu byri góða, ok vóru skamma stund úti; kvómu við Snæfellsnes, ok tóku land í Hraunhöfn: spurði konúngr ok jarl til ferða Þorgríms, ok þóttist Ketill hafa fengit hina mestu sneypu, mist konuna, en þótti óvist hvort hann gæti þetta nokkut við Þorgrím rètt eðr eigi. Konúngr gerði Þorgrím utlægan fyrir þetta verk af atgangi Ketils. Hverfum hèr frá at sinni.

6. Hólmkell hèt maðr, hann bjó á Fossi á Snæfellsnesi við Hólmkelsá; hann átti þá konu er Þorbjörg hèt [Einarsdóttir frá Laugarbrekku[1], hann átti ij sonu með henni, hèt annarr Jökull en annarr Einarr. Hólmkell var Alfarinsson, Valasonar. Bróðir hans var Íngjaldr at Íngjaldshvoli ok Hösköldr at Hösköldsstöðum, ok Goti á Gotalæk.[2] Þorgrímr hinn prúði keypti land at Íngjaldshvoli, en Íngjaldr fór kaupferðum í annan stað, ok kemr hann ekki við þessa sögu. Þorgrímr gerðist brátt höfðíngi mikill, ok hinn mesti ristnar maðr. Þeir gerðust vinir miklir ok Hólmkell at Fossi. Þat er sagt, at Þorgrímr gerði brúðhlaup til Ólöfar. Hinn næsta vetr, er þau bjuggu at Íngjaldshvoli, fæddi Ólöf barn, ok var þat sveinn, ok var nafndr Trausti. Vetri síðar fæddi Ólöf annan svein, ok var sá Víglundr nefndr, hann var snemma bæði mikill ok vænn, ok á því sama ári fæddi Þorbjörg mey-

1) [*tf.* 160, (511).
2) *sml.* Landn. 2 8.

barn ok var nefnd Ketilríðr. Þau vóru jafngömul ok Víg-
lundr, en Trausti vetri eldri. Þau eru upp fædd í hèraðinu,
ok var þat allra manna mál, at eigi karl nè kona fæddist
fegri upp, ok at öllu kur[teisari[1] menn í sveitum en þau
Víglundr ok Ketilríðr. Hólmkell unni dóttur sinni mikit svo,
hann mátti ekki í móti henni láta, en Þorbjörg [unni henni[2]
minna. Þá er Víglundr var x vetra en Trausti xj, vóru
þar öngvir þar í sveitum jafnsterkir, ok var Víglundr sterk-
ari. Þar fóru eptir aðrar þeirra listir, enda sparaði Þor-
grímr ekki af at kenna sonum sínum. Öngvar hannyrðir
vildi Þorbjörg at Fossi kenna dóttur sinni. Þat þótti Hólm-
keli bónda mikill skaði; tekr síðan þat ráð, at hann ríðr
til Íngjaldshvols með dóttur sína; fagnar Þorgrímr honum
vel, þvíat vinátta mikil var með þeim. Leitaði Hólmkell
þangat til fóstrs dóttur sinni til Ólafar, at hún kendi henni
hannyrðir, þvíat Ólöf var kölluð bezt ment allra kvenna á
Íslandi; tók hún fegins hendi við henni, ok lagði ástfóstr
við hana. Þá átti Ólöf únga dóttur, er Helga hèt; var hún
vetri ýngri en Ketilríðr, löðuðust þau öll saman með skemt-
an ok gleði þessir úngu menn, en at hverju gamni sem þau
vóru, hlotnaðist svo til, at jafnan vóru þau sèr Viglundr ok
Ketilríðr, en þau systkin sèr Trausti ok Helga. Festi nú
hvort þeirra Víglundar ok Ketilríðar mikla ást saman; töluðu
þat ok margir, at þat þætti jafnræði fyrir flestra hluta sakir.
Þat var jafnan, er þau vóru bæði saman, at hvorki gáði ann-
ars, en horfa upp á annat; talaði Víglundr þat [einn tíma[3]
at hann vildi at þau byndi með fastmælum sína ást, en
Ketilríðr gaf sèr fátt um þat; eru þar, segir hún, margir
hlutir í móti, [þat fyrst[4] at þèr megi þetta ekki í hug vera,

1) *Her beg. 551. a. igjen.*
2) [munum. 551.
3) 551; eina, Hd.
4) [*tf.* 551.

er þú ert eigi fulltíða; verði þér jafnan hverflyndir karlmennirnir um slíka hluti. Þat er annat, at mèr stendr þat ekki, enda vil ek þat ekki, at fara eigi at föður ráðum, en þat er it þriðja, at fyrir má bíta, at ek sè mín eigi ráðandi, ok veit ek, at þar ganga mest at ráð móður minnar, hefir hún lítið ástríki á mèr, en öngvan veit ek þann, at ek vildi heldr eiga en þik, ef ek skyldi ráða, en hitt segir mèr hugr um, at þar muni meinbugir stórir við liggja, hversu sem at lyktum gengr. Opt kom Víglundr at máli við Ketilríði um þetta, en hún svarar honum inu sama, en þó segja menn, at þau muni eiðum hafa bundit sitt eiginorð.

7. Nú er þar til at taka, sem þeir bræðr Jökull ok Einarr gerðust mjök óspakir í hèraðinu, gengu þeir mjök í fótspor móður sinnar um slíka hluti, en Hólmkeli var þat leitt, ok gat þó ekki at gert; verða þeir ok óvinsælir sakir síns framferðis. Þeir bræðr áttu einn graðan hest, brúnan at lit, hann var ólmr; hverjum hesti rendi hann, sem honum var við att; hann hafði vígtennr svo stórar, at þær vóru öngum hesttönnum líkar. Víglundr átti graðan hest fífilbleikan at lit, hesta beztr ok fegrstr, hann hafði mikil mæti á hestinum. Þorgrímr hinn prúði átti ij yxn brandkrossótt at lit, beinslitr var á hornum þeirra, honum þótti yxnin góð. Þat var einn tíma, at Einarr kom at máli við móður sína: illa þiki mèr, at Þorgrímr hinn prúði hefir svo mikil metorð hèr í hèraðinu, ætla ek mèr at vita, ef ek get komizt á muni við Ólöfu konu hans; mundi þá verða annat hvort, at hann mundi leita at hefna eðr metnaðr hans mundi lægjast, ok er þó óvíst, þóat hann leiti at hefna, at hann beri hærra hlut. Hún kvað þetta vera vel mælt, ok væri nærri sínu skapi. Ok einhvern dag er Þorgrímr var ekki heima reið Einarr til Ingjaldshvols ok Jökull bróðir hans með honum. Olöf húsfreyja hafði þat boðit einni heimakonu sinni, at hvern morgin

skyldi hún læsa kalldyrum, er karlmenn færi til verks síns, ok svo gerði hún, ok þenna morgin kvómu þeir at bænum; varð heimakona vör við, ok gengr til svefnhúss Ólöfar, ok segir henni, at þeir Fossverjar eru komnir; stendr hún upp, [ok klæðir sik[1], ok gengr til saumstofu sinnar, ok setr þar niðr [á miðjan pall[2] griðkonu sína, ok leggr yfir hana möttul sinn, ok mælti: bregðst þú eigi ókunnig við, þó þeir ætli mik þik vera, en ek skal svo til sjá, at þú fáir öngva skömm[3] af honum. Aðra heimakonu sendi hún til dyranna, þvíat ekki var karlmanna heima. Einarr spurði hvar Ólöf væri, en hún sagði hana vera í saumstofu sinni. Þangat snýr Einarr ok þeir bræðr báðir, en er þeir kómu í stofu, sá þeir at Ólöf sat á palli; settist Einarr niðr hjá henni ok talaði við hana. Í þessu kom maðr í stofuna bláklæddr ok hèlt á brugðnu sverði. Maðrinn var ekki stórr vexti en allreiðuligr var hann. Þeir spurðu hann at nafni, en hann nefndist Óttarr. Ekki þektu þeir þenna mann, en þó stóð þeim nokkur ótti af þessum manni. Hann tók til orða: út er at ganga ok fagna Þorgrími bónda, þvíat hann ríðr at garði. Þeir spretta upp báðir ok ganga út, ok sjá hvar bóndi ferr við mikinn flokk manna; stökkva þeir á bak ok ríðu í burt ok heim; en reyndar var þetta búsmali heim rekinn, en hinn bláklæddi maðr var Ólöf sjálf. En er Fossverjar vissu þat, þóttust þeir hafa farit mikla smánarferð. Vex nú af nýju mikill óþokki þeirra í millum. En er Þorgrímr bóndi kom heim, sagði Ólöf honum allt hversu farit hafði. Þorgrímr mælti þá: ekki skulu vit okkr at þessu gefa, sakir Hólmkels vinar míns, með því er Einarr kom ekki sínum vilja fram.

8. Þat var einn dag er þeir bræðr Jökull ok Einarr

1) [*tf* 551.
2) [*tf*. 160, (511).
3) 160, (511). blygð. *Her mgl. 2 Blade i* Hd (510); *Texten bliver nu tagen efter Mbr. 551. a.*

riðu til Íngjaldshvols, þeir vóru allir heima feðgar ok úti staddir. Jökull spurði hvort Víglundr vill gefa honum hestinn hinn fífilbleika. Víglundr kveðst ekki ráðinn í því. Jökull kvað fornmannliga við orðit, en Víglundr kvað ekki verða farit at því. Þá muntu vilja etja við mik hestunum. Þat þikir mèr mega, segir Víglundr. Þá þiki mèr betr en gefinn, segir Jökull. Mun þat eigi fara sem má, segir Víglundr. Kveða þeir á dag nær vera skal hestaatið. En er sú stund kom er hestum skal etja, þá var fram leiddr brúnninn þeirra bræðra, ok lætr hann ógurliga. Þeir bjuggust tví bræðr báðir at fylgja honum. Því næst kom fram bleikrinn Víglundar; en þegar er hann kom í hrínginn, þá snerist hann í krínglu, allt þar til er hann hóf upp báða fætr hina fyrri ok setti framan á snoppu Brúns svo at úr honum hrutu allar vígtennrnar. Síðan lagði hann at tennrnar sínar ok náði aptrhuppinum á Brún, ok reif þar á hol; datt Brúnn þá niðr dauðr. Ok er Fossverjar sá þat, hlupu þeir til vopna ok svo hvorirtveggju, ok börðust þar til er þeir Þorgrímr ok Hólmkell gátu skilit þá, ok var þá fallinn einn maðr af Víglundi en tveir af þeim Jökli, ok skildu við svo búit. Enn hèlzt vinátta með þeim Þorgrími ok Hólmkeli sem áðr: spurði hann ok kærleika er var með þeim Víglundi ok Ketilríði ok meinaði hann þat ekki, en Þorbjörgu ok sonum hennar þótti þat mjök illa vera. Liðu nú svo fram stundir, at þat var allra manna mál, at öngir menn væri jafnvænir sem þau Víglundr ok Ketilríðr á Íslandi þeim samtíða sakir lista ok kurteisi.

9. Einn tíma er þess getið, at þeir bræðr Jökull ok Einarr fóru heiman frá Fossi um nótt, hún var þá björt, ok fram á afrètt, sem hestrinn sá hinn fífilbleiki, er Víglundr átti, stóð í; þeir kvómu til hrossanna ok vildu reka heim, en þat gekk þeim með öngu móti, svo varði þeim hestrinn, at þeir gátu hvergi rekit hrossin; en þeir höfðu ætlat at reka hrossin

öll í langreið með hestinum. En er þeir gátu eigi þat gert, urðu þeir harðla reiðir, ok sóttu at hestinum með vopnum ok vildu drepa hann, en hestrinn varðist með tönnum ok fótum svo ramliga, at þat var lengi nætr, at þeir gátu ekki at gert, en þat varð um síðir, at þeir kvómu á hann spjótalögum ok drápu hann svo. En er þat var gert nentu þeir ekki at reka heim hrossin þvíat þeim þótti sem þá mundi víst verða at þeir höfðu drepit hestinn, en þeir vildu leyna, ok drógu hann ofan fyrir einn klett til þess at þat væri ætlat, at hann hefði þar ofan fyrir dottið sjálfr. Fóru þeir síðan heim, ok lètu sem ekki hefði í gerzt. Nokkuru síðar fóru þeir bræðr Jökull ok Einarr í afrètt þá er Þorgrímr hinn prúði átti ok geldneyti hans gengu í. Þar gengu í fimtigir uxa í flokki, er Þorgrímr átti. Þar þektu þeir brandkrossana hinu góðu, tóku þá, ok slógu við togi ok leiddu heim til Foss ok drápu af báða ok gengu til ok festu upp síðan í útibúri. Þetta var nátt eina; höfðu þeir ok lokit þessu starfi áðr en heimamenn stóðu upp. Allt vissi móðir þeirra þetta með þeim, ok var heldr tasvíg at starfinu með þeim sonum sínum.

10. Nú er þar til at taka er þeir bræðr Víglundr ok Trausti gengu einn dag til hrossa sinna, ok er þeir kvómu í afrèttina til hrossanna, þá sakna þeir hestsins ok leituðu víða, ok fundu hann um síðir undir einum klett stórum dauðan. Finna þeir á honum stór sár ok mörg, hafði hann verit lagðr á hol. Þóttust þeir Víglundr vita at þeir Fossverjar mundu gert hafa; gengu þeir bræðr heim, ok sögðu at hestr þeirra var dauðr ok Fossverjar mundu gert hafa. Þorgrímr bað þá láta vera kyrt, hafa þeir mist sinn hest áðr, mun yðr nokkut til verða annat, ef svo ferr sem ek ætla, þótt þetta líði um. Lètu þeir þá kyrt fyrst at sinni. Eigi löngu síðar var sagt Þorgrími, at í burtu væri uxar hans hinu góðu, brandkrossarnir, þeir sem hann hafði mest mæti á, ok þat

með, at menn hugðu af mannavöldum vera. Þorgrímr gaf sèr fátt um þetta, en sagði þó meiri von, at þjófar mundi liggja úti á fjöllum, þeir sem slíku ylli. Lèt hann ekki leita uxanna. Spyrst nú þetta víða, ok þikir mönnum þeir á Íngjaldshvoli verða fyrir miklum sköðum. Þorbjörg at Fossi hefir þetta í miklum fleymíngi; hún lætr neyta slátruxanna. En er Hólmkell bóndi verðr þess varr hvar uxarnir eru niðr komnir, er Þorgrímr bóndi átti, tekr hann einn dag hest sinn, ok ríðr til Íngjaldshvols. En er hann finnr Þorgrím bónda, segir Hólmkell honum, at hann hyggr at þar muni niðr komnir uxar hans hinu góðu hjá honum, ok synir hans munu valda. Vil ek, segir hann, lúka verð fyrir uxana, svo mikit sem þú vilt sjálfr hafa, ef þú sækir þá eigi saksóknum. Þorgrímr segir at svo skyldi vera. Tók hann þá svo mikla penninga, sem honum vel líkaði, ok skildu þeir Hólmkell ok Þorgrímr með mikilli vináttu.

11. Kjölvör hèt kona er bjó í Hraunskarði, hún var fjölkunnig mjök ok at öllu illa fallin, harðla óvinsæl við alþýðu manna. Mikil vinátta var með þeim Þorbjörgu at Fossi. Þau mæðgin öll saman, Þorbjörg, Jökull ok Einarr, keyptu at Kjölvöru, ok gáfu henni til c. silfrs, at hún skyldi fyrir koma þeim bræðrum Víglundi ok Trausta meðr einhverjum gerníngum, eptir því sem hún sæi ráð til, því at þeim lèk hin mesta öfund á þeim, en höfðu spurt hverr kærleikr var með þeim Víglundi ok Ketilríði, en fyrirmundu þeim at njótast sem síðan gaf raun á. En þau unnust því heitara með leyniligri ást ok fólginni elsku þeim í brjósti, þegar í fyrstu, er þau vóru uppvaxandi, svo at rætr elskunnar ok uppvöxtr ástarinnar, er aldri varð upprættr úr þeirra hjörtum eptir því sem náttúra er amorsins, at eldr yndisins ok logi elskunnar brennr því heitara, ok sækir því meir brjóst ok hjörtu mannanna saman, sem

fleiri vilja þeim meina, ok stærri skorður við settar þeirra vandamanna, er áðr hefir ást ok elska saman fallit þeirra á millum, sem nú þessara manna Víglundar ok Ketilríðar, þvíat þau unnust alla æfi svo heitt meðan þau lifðu bæði, at hvorki mátti af öðru sjá, þaðan af er þau sáust (með) fyrsta, ef þau skyldu eptir því gera sem hugir þeirra stóðu til[1]. Maðr hèt Björn[2], hann var heimamaðr Þorgríms prúða[3]; hann var sjógarpr svo mikill, at honum þótti ekki veðr ófært á sjó at fara; kveðst hann aldri hirða um glettíngs báru. Hann hafði komit út með Þorgrími, ok hafði þá iðju, at hann var fyrir skipum hans, en þá var fiskgangr mikill á nesinu. Aldri reri hann við fleiri menn en við þriðja mann, ok hafði þó röskvan teinæríng. þat bar til at liðsmenn hans báðir sýktust um haustið af göldrum Kjölvarar; vóru þá allir menn at heyverkum. Þá vildi Björn róa til fiski ok biðr þá bræðr Víglund ok Trausta at róa með sèr um daginn. Þeir gerðu svo þvíat veðr var gott ok[4] var vingott með þeim. Allt vissi Kjölvör þetta, ok fór upp á hús ok veifði kofra sínum í austrætt, ok þyknaði skjótt veðrit. En er þeir kvómu út á miðit, var fiskr nógr undir: þá sá þeir at dró upp flóka einn við austr ok landnorðr. Víglundr mælti: þat þikir mèr ráð, at vèr haldim at landi, mèr [lízt ekki á[5] veðr þetta. Björn segir: eigi munu vèr þat gera fyrr en hlaðit er skipit. þú munt, segir Víglundr, ráða því. Flókann dró skjótt yfir ok fylgdi bædi vindr ok frost ok svo mikil sjóilska, at sjórinn var hvergi kyrr[6] ok rauk sem saltkorn. Björn kvaðst þá vildu at landi halda.

1) *fra* [En þau, *mgl. i* 160, (511).
2) ok var kallaðr Báru-Björn *tf*. 160, (511).
3) en því var hann Báru-Björn kallaðr, at *tf*. 160 (511).
4) síðan *tf*. Hd.
5) [sezt ekki at veðri þessu 160, (511).
6) heill 160, (511).

Víglundr kvað betr fyrr, en þó skal nú ekki at telja. Þeir róa þá Björn ok Trausti, og gengr hvergi á fyrir þeim, rekr þá í útsuðr til hafs; tekr þá at fylla undir þeim skipit. Víglundr biðr Björn [au]sa en Trausta stýra, en hann sezt til ára ok rær svo sterkliga, at hann nær landi við Dögurðarnes; þar bjó Þorkell skinnvefja, er út kom með Bárði Snæfellsás, ok var þá gamall. En (er) sagt var Ketilríði, at þá hefði undan rekit, ok þeir væri dauðir, þá sè á hana úmegin. En er hún raknaði við kvað hún vísu þessa, er hún leit til sjófarins:

Eigi má ek á ægi
ógrátandi líta
sízt er málvinir mínir
fyrir marbakkann sukku:
leiðr er mèr sjófar sorti
ok súgandi bára,
heldr gjörði mèr harðan
harm, í unna farmi.

Þorkell tók vel við þeim bræðrum ok fóru þeir heim annan dag; varð þar fagnafundr með þeim Víglundi ok Ketilríði.

12. Nú er þar til at taka er fyrr var frá horfit, at Ketill raumr unir illa við málalyktir þær, er urðu með þeim Þorgrími hinum prúða; tók hann fast at eldast ok þótti eigi hægt til atgerða. Synir hans Sigurðr ok Gunnlaugr gerðust hraustir menn ok vænir, en Íngibjörg dóttir hans var allra kvenna fríðust. Hákon hèt maðr víkverskr at ætt ok ríkr at peníngum ok kappsamr; hann byrjar sína ferð til Ketils af Raumaríki, ok biðr dóttur hans sèr til handa, en hann svaraði svo því máli: ek mun gipta þèr dóttur mína með þeim skilmála, at þú skalt fara áðr út til Íslands, ok drep áðr Þorgrím prúða, ok fær mèr höfuð hans. Hákon kvað sèr ekki þikja þat mikils vert, ok þessu keyptu þeir.

Fór Hákon til Íslands þat sumar; hann kom skipi sínu við Fróðárós. Þeir Fossverjar kvómu til skips fyrst, Jökull (ok) Einarr. Tók stýrimaðr vel við þeim, ok spurði þá margs. Þeir vóru ok lèttir af tíðindum. [Spurði hann at hýbýlum, en þeir sögðu hvergi betra[1] en at Fossi hjá föður sínum; eigum vit systur svo fríða ok kurteisa, at engin finst hennar líki; vilju vit gera hvort er þú vilt, einn eiga hana eðr takir þú hana frillutaki, viljum vit bjóða þèr þangat til vistar með okkr. Stýrimanni þótti þetta mjök fýsiligt; segist hann ok þangat fara mundu, ok segir þeim þá hvert erindi hann hefir til Íslands, ok þótti þeim þat vel vera, ok bundust nú allir í þessum ráðum. Nokkuru síðar fór stýrimaðr heim til Foss, ok var þat fjarri vilja Hólmkels bónda, en þó varð svo at vera, ok nokkuru síðar kom stýrimaðr sèr í vináttu við Þorbjörgu; gaf hann henni marga góða gripi. Þat var einn tíma, at Hákon kom at máli við þau mæðgin; hann spurði hvar sú kona væri, er þeir bræðr höfðu honum af sagt; vilda ek sjá hana. Þau sögðu hana vera á fóstri hjá Ólöfu at Íngjaldshvoli. Hákon bað, at hún skyldi heim fara, ok treystir ek því, [at ek skal af yðr mæðginum (full)tingi[2] til hafa at[3] ek fái hennar vilja sakir vorrar vináttu. Litlu síðar kom Þorbjörg at máli við Hólmkel bónda. Þat vil ek, segir hún, at Ketilríðr dóttir mín fari heim til mín. Hitt þiki mèr ráð, segir bóndi, at hún sè þar kyrr sem hún er komin. Eigi skal þat vera, segir hún, skal ek fyrr sækja hana en hún sè þar lengr ok fái þvílikt orð af Víglundi sem á horfist; vil ek fyrr gipta hana Hákoni þvíat þat lízt mèr sómaráð. Skilja þau

1) [Spurði hann þa at Þorgrími prúða. Þeir sögðu hann búa á Ingjaldshóli ok vera hinn mesta virðíngamann ok höfðíngja, en sögðu hvergi betri hýbýli, 160, (511).
2) tengi Hd.
3) [at þit mæðgin se ið í stilli svo ok 160, (511).

tal sitt at því. Þykist Hólmkell vita, at Þorbjörg lætr sækja Ketilríði, ok vill hann heldr sækja hana sjálfr. Ríðr hann síðan til Íngjaldshvols; var honum þar vel fagnat. En er hann var kominn gengr Víglundr til Ketilríðar ok mælti svo: hèr er kominn faðir þinn, þikjumst ek vita at hann ætlar at sækja þik ok flytja þik heim með sèr, mun hann ok því ráða, en þat vilda ek, Ketilríðr, at þú myndir öll okkar einkamál, þvíat ek veit, at ek verð þèr aldri afhuga. Ketilríðr mælti, ok grèt við mjök: fyrir löngu þóttumst ek vita, at vit mundum eigi njótast mega í náðum; þætti mèr nú betr, at vit hefðim þar færra um talat, en ekki er víst, at þú unnir mèr meira en ek ann þèr, þótt ek tala þar um færa en þú, en sè ek at þetta (eru) ráð móður minnar, hefir ek lítt ástir af henni haft um langa tíma, ok er þat líkast at farnar sè gleðistundir okkrar ef hún ræðr, en þó munda ek vel una ef ek vissa at þèr gengi vel til, ok annathvort munu vit njótast aldri eðr munu þar ráð föður míns til koma, en þó á hann við þungt at etja[1] þar sem eru bræðr mínir ok móðir, þvíat þau vildu allt í móti mínum vilja gera, en lát þú sem sízt á þèr festa. Síðan gekk Víglundr at Ketilríði ok kysti hana, var þá auðfundit á henni ok þeim báðum, at þeim þótti mikit fyrir at skilja at því sinni, ok kvað Víglundr vísu.

Öngri skal ek þó[2] úngri
unna silkigunni
enn svo at ýtar finni
annari en þèr svanni;
fríð mun þú orð ok eiða
ár[3] þá er fyrri váru

1) *saal.* 160, (511). *ulæseligt i* Hs.
2) svá, 160.
3) ór, 160.

blökk þóat spreytinn sprakki[1]
spilli vor á milli.

Ketilríðr gekk þá inn í bæinn at finna föður sinn. Sagði hann þegar, at hún skyldi heim með sèr. Ketilríðr kvað hann ráða skyldu, en gott þykir mèr hèr at vera . . .[2] segir hann en þó verðr nú (svo) at vera. Öllum þótti mikit at skilja við Ketilríði, þvíat hún var hugþekk hverjum manni. Riðu þau nú heim til Foss; ok er Ketilríðr var heim kominn, varð stýrimaðr harðla feginn, en Þorbjörg móðir hennar skipaði henni at þjóna Hákoni, en hún vildi þat með engu móti gera; sagði hún þetta föður sínum með gráti, en hann sagði: þú skalt ekki Hákoni þjóna nema þú vilir, ok þat eina gera sem þú vilt, ok vertú jafnan hjá mèr nætr ok daga. Hún kvaðst þat gjarna vilja. Leið svo fram nokkura stund, at hann náði aldri at tala við hana.

13. Nú eru teknir upp leikar á Esjutjörn[3] ok gengu Fossverjar fyrir gleði, ok hinn fyrsta dag, er menn kvómu heim frá leik þessum, spurði Ketilríðr, hvort ekki hefði komit frá Íngjaldshvoli; henni var sagt, at þeir hefði allir komit feðgar ok Ólöf ok Helga dóttir hennar. Ketilríðr bað föður sinn annan dag at fara til leiksins. Hann játar því, ok fóru þau nú öll saman um daginn, ok varð gleði góð, þvíat Þorgrímssynir kvómu, en ekki fleiri frá Íngjaldshvoli. Þeir gengu þangat á brekkuna sem konurnar sátu. Ketilríðr stóð upp í móti þeim ok fagnar þeim blíðliga, settust þeir niðr hjá henni á sína hönd hvorr Ketilríði, Víglundr ok Trausti. Þá mælti Ketilríðr: nú mun ek gera mèr jafnkært við báða ykkr at yfirvarpi. Ketilríðr horfði jafnan á Víglund ok mælti: nú mun ek lengja nafn þitt ok kalla þik Víglund hinn væna, ok er hèr hríngr er ek vil gefa þèr er

1) spretti sprakkan, 160.
2) *ulæseligt i* Hd.
3) Æsutjörn, 160, (511.)

faðir minn gaf mèr í tannfè, ok hann vil ek gefa þèr í nafnfesti. Hann tók víð hríngnum ok dró á hönd sèr. Víglundr gaf henni á mót hrínginn Haraldsnaut þvíat faðir hans hafði gefit honum hann. Varð þeim nú drjúgtalat. Sem þeir Fossverjar sá þetta fèkst þeim mikit um. Fara nú hvorirtveggju heim um kveldit. Kom Hákon at máli við Þorbjörgu ok bað hana ekki láta dóttur sína fara til mannfunda nokkurra með þvílíka skapsmuni sem hún hefir. Hún játar því, ok talar Þorbjörg við Hólmkel bónda at hann skyldi eigi Ketílríði láta fara til nokkurra leika, ok láta hana heldr sitja[1] heima, ok svo gerði hann, ok varð Ketilríðr óglöð við þat. Faðir hennar kvaðst þá heima skyldu vera hjá henni, ef henni þætti svo betr, en hún kvaðst þat gjarna vilja. Fóru menn nú til leika sem áðr, ok stóðu þar sínumegin at hvorir at leik, Fossverjar ok Þorgrímssynir. Þat var einn tíma, at Víglundr sló knöttinn út fyrir Jökli. Jökull reiddist þá ok tók knöttinn, er hann náði, ok setti framan í andlit á Víglundi, svo at ofan hljóp brúnin. Trausti reist af skyrtu sinni, ok batt upp brúnina á bróður sínum; en þá er þat var gert vóru Fossverjar heim farnir. Þeir bræðr fóru heim, ok er þeir kvómu til stofu, sat Þorgrímr á palli ok mælti svo: heil, systkin. Hvorn okkar kvennkennir þú nú, faðir? segir Trausti. Mèr þikir, segir Þorgrímr, sem þat muni kona vera, er faldinn hefir. Eigi er ek kona, segir Víglundr, en vera má at [skamt sè frá[2]. Því hefndir þú þín eigi á Jökli? segir Þorgrímr. Þeir vóru heim farnir, segir Trausti, þá er ek hafða bundit um andlitið. Fèll þar þetta skraf niðr at sinni. [Annan dag[3] fóru þeir til leiks báðir bræðr, ok þá

1) *her beg. 510 igjen, hvorefter Texten nu bliver tagen.*
2) [litt sè af brugðit, 160 (511).
3) [*cf.* 551.

er minst var von at, sló Víglundr [knettinum framan í brýn Jökli[1] svo at sprakk fyrir. Jökull ætlaði [at slá Víglund með knattdrepunni.[2] Víglundr hljóp undir Jökul, ok færði hann niðr við klakanum, svo at Jökull lá lengi í óviti; vóru þeir þá skildir, ok fóru hvorirtveggju heim. Eigi var Jökull sjálfkrafi á bak; var hann fluttr í fjórum skautum heim; batnar honum bráðliga; vóru þá teknir upp leikar at Fossi. Bjuggu þeir Þorgrímssynir sik til leika. Latti Þorgrímr þess ok kvaðst hann þat ætla, at stór vandræði mundi af standa; en þeir fóru eigi síðr. En er þeir kvómu í stofu at Fossi, var tekit til leiks. Alskipuð var stofan. Víglundr gengr innar at pallinum, þar sem bóndi sat ok dóttir hans. Ketilríðr fagnar vel Víglundi. Hann tók hana úr sæti ok settist þar niðr, en setti hana í knè sèr. En er bóndi sá þat, þá þokaði hann um manns rúm; settist Ketilríðr niðr í millum þeirra, tóku þau tal með sèr. Þá lèt bóndi fá þeim tafl, ok tefldu þau þar um daginn. Illa gazt Hákoni at því. Opt kom Hákon at því máli við Hólmkel um vetrinn, at hann skyldi gipta honum Ketilríði dóttur sína, en Hólmkell bóndi svarar æ hinu sama, ok lèzt þat eigi gera mundu. Líðr nú daginn þat til sem þeir bræðr bjuggust heim; en er þeir vóru út komnir á hlað, var Ketilríðr þar fyrir, ok bað þá bræðr ekki fara heim um kveldit, sakir þess, segir hún, at ek veit, at bræðr mínir sitja fyrir ykkr. Víglundr kvaðst fara sem áðr eptir því sem hann hafði áðr ætlað, ok svo gerðu þeir. Sína öxi hafði hvorr þeirra bræðra í hendi sèr. En er þeir kvómu at stakkgarði einum, sá þeir, at þar vóru Fossverjar xij saman. Þá mælti Jökull: Þat er vel, Víglundr, at vit höfum fundizt, skal nú launa þèr fallit[3] ok svo knatthöggit.

---

1) 551; Jökull, Hd.

2) [551: at hlaupa undir Víglund, Hd.

3) 551; höggit Hd.

Ek hann eigi at lasta, segir Víglundr. Síðan sækja þeir at þeim bræðrum en þeir verjast vel ok drengilega. Eigi hafði Víglundr lengi barizt,[1] áðr en hann varð mannsbani ok annars en Trausti hafði drepit hinn þriðja. Þá mælti Jökull: nú skulu vær frá halda, ok snúa öllum sökum á hendr þeim bræðrum, ok svo gerðu þeir; fóru þá hvorirtveggju heim; segir Jökull föður sínum, at Víglundr ok Trausti hefði drepit þrjá heimamenn hans, en vèr vildum ekki á hluta þeirra gera fyrr en vær fundum þik. Hólmkell varð þá reiðr mjök við sögu þessa.

14. Jökull eggjaði föður sinn á at gipta Hákoni Ketilríði dóttur sina, ok með atgangi þeirra bræðra gipti Hólmkell dóttur sína, ok lagði hún þar ekki samþykki til; ætlaði Hákon at festast hèr á Íslandi, þvíat hann sá, at hann kom því ekki fram, at drepa Þorgrím prúða; spurðist þetta nú til Íngjaldshvols, ok brá Víglundi mjök við þetta. En er Hólmkell sá hit sanna um fyrirsátir þeirra bræðra, þá þóttist hann hafa ofgert, er hann gipti Hákoni Ketilríði. Sækja þeir nú leika sem áðr Þorgrímssynir til Foss. Kom Víglundr at máli við Ketilríði, (ok) gaf henni stór ávít er hún var gipt. En er þeir bjuggust heim um kveldit, var Hákon horfinn ok þeir Hólmkelssynir, ok margir menn með þeim. Bóndi leitaði um við Víglund: þat vilda ek, segir hann, at þit færit ekki heim í kveld, þvíat mèr þikir eigi trúlig ferð þeirra bræðra; en hann kveðst fara mundi sem hann hefði ætlat fyrir því. En er þeir kvómu út fyrir dyr var Ketilríðr þar fyrir, ok bað Víglund fara aðra leið.[2] Ekki mun ek stórt fyrir þín orð gera, segir hann, ok kvað vísu:

Trúði málmþíngs[3] meiðir

1) varist Hd.
2) en hann hafði ætlað, ok hann hafði eigi áðr farit, *tf.* 551.
3) 551; málþíngs Hd , 160.

margglóðar[1] þèr tróða,
hugða ek sízt at hefði
hrínglestir þik festa;
eigi tjáðu eiðar
oss nè margir kossar,
seint er kvenna geð kanna,
kona sleit við mik heitum.

Ekki þikjumst ek þat gert hafa, segir Ketilríðr, ok vilda ek, at þú færir hvergi. Eigi skal þat vera, segir Víglundr, þvíat mèr er meiri hugr á, at við Hákon reyndim með okkr, en hann spenni þik, ok sjái ek þar upp á, ok kvað vísu:

Þola mun ek eld sem aðrir,[2]
þótt eggviðr á mik leggi,[3]
ráð eru þúnglig þrúðar,
þann sem maðr[4] eðr annarr
hinn þikki mèr meiri[5]
ef menbrennir þik spennir
iðinn axlarmeiðum
annarr en ek þik svanni.

15. Síðan fóru þeir veg sinn, ok allt þar til, er þeir kvómu at stakkgarðinum þar sem þeir höfðu ázt við fyrr. Þar vóru Fossverjar xij saman. Þeir (Þorgrímssynir) kvómust upp á heyit er í garðinum var, svo at hinir urðu ekki fyrr varir við en þeir höfðu leyst upp stórt klakatorf ok mikit; en er þeir höfðu þat gert, sá þeir þá Þorgrímssonu ok hlupu þeir upp ok sóttu at þeim, ok varð þar hinn snarpasti bardagi, ok þóttust þeir Fossverjar sjá, at þeir mundu seint geta unnit þá Þorgrímssonu meðan þeir vóru á heyinu. Þá mælti

1) 551; marggløðar Hd.
2) annar, 551.
3) leggja, 551.
4) 551, 160, 511; ann *tf.* Hd. (ur).
5) 160; 511; minni, Hd. 551.

Jökull: þat er nú ráð, Víglundr, at hvika eigi undan, ok höfum vèr þat fyrir satt, at þú sèrt eigi fullröskr karlmaðr, nema þú farir ofan af heyinu, ok berjumst svo til þrautar. Ok við áeggjan Jökuls stökk Víglundr ofan af heyinu, ok svo Trausti bróðir hans; varð þá svipan hörð, ok fèllu þá menn þeirra Hákonar allir svo at þeir stóðu uppi þrír einir Fossverjar, Jökull ok Einarr, Hákon, ok enn ij menn, ok vóru þá óvígir. Jökull mælti: nú skal með prúðvígi at vinna; þeir skulu berjast Trausti og Einarr, Víglundr ok Hákon, en ek skal sitja hjá. Trausti var bæði sárr ok móðr; berjast þeir (Trausti ok Einarr) til þess er hvorrtveggi fellr. Þá tóku þeir til at berjast Víglundr ok Hákon; var Víglundr ákafliga móðr en ekki sárr. Þeirra atsókn var bæði hörð ok löng, þvíat Hákon var bæði sterkr ok fullhugi, en Víglundr var bæði sterkr ok vopnfimr ok ákafr, ok svo lýkr þeirra viðskiptum, at Hákon fellr dauðr niðr en Víglundr er þá mjök sárr. Jökull sprettr þá upp, hann var þá ómóðr ok ekki sárr. Þá snýr hann til móts við Víglund, ok taka þeir til at berjast, ok varð þeirra atgangr lengi dags bæði harðr ok langr, svo at ekki mátti á millum sjá, hvorr at sigrast mátti; þó þóttist Víglundr sjá, at honum mundi eigi endast at berjast við Jökul til þrautar sakir sára sinna ok mæði. Kastar hann þá upp skildinum ok öxinni, því hann var jafnvígr báðum höndum; tók hann þá hinni hægri hendi skjöldinn en hinni vinstri öxina, við því gat Jökull ekki sèt, ok hjó Víglundr af honum höndina hægri[1] í olbogabótinni. Þá leitaði Jökull undan; eigi gat Víglundr eptir honum farit; [greip hann þá spjót eitt, því mörg lágu hjá honum, ok skýtr[2] eptir Jökli. Spjótið kom á millum herða honum, og flaug út um brjóstið; fèll Jökull þá dauðr niðr, en Víglund mæddi blóðrás,

1) *tf.* 160.

2) 551; varpar hann spjóti, Hd.

ok fèll í óvit ok lá sem hann væri dauðr. Þetta sá þeir ij menn sem eptir vóru af Fossverjum, leituðu þeir þá á bak, ok riðu heim til Foss ok kvómu í stofu; sat bóndi á palli ok dóttir hans en húsfreyja á aðra hönd. Þeir segja þá tíðindin at Hákon var fallinn ok þeir bræðr ok vij menn aðrir, ok svo væri fallnir Þorgrímssynir. Ok er Ketilríðr heyrði þat, fèll hún í óvit, en er hún vitkaðist mælti Þorbjörg móðir hennar: nú sýnir þú lauslæti þitt, segir hún, ok hverja ást er þú hefir haft á Víglundi; [er nú vel[1] er þit skulut skilja. Hólmkell bóndi mælti: því skal svo virða fyrir henni, svo mikit unni hún bræðrum sínum, at henni brygði eigi síðr við þat, er hún spurði þeirra fall. Vera má þat, segir Þorbjörg, at þat sè svo, en eigi ætlaði ek, at svo mundi verða, ok er mál at safna liði ok mönnum ok drepa Þorgrím hinn prúða, ok hefna sem greypiligast. Mun því vel ráðit? sagði bóndi, þiki mèr sem hann sè saklauss af drápi þeirra bræðra, en Þorgrímssynir máttu eigi meira fyrir týna en lífinu, lá þeim þat fyrir at verja hendr sínar.

16. Þeir Víglundr og Trausti liggja nú í valnum, raknar Víglundr við ok leitar at bróður sínum ok finnr at líf er með honum, ætlar hann at veita honum umbúð því hann treystist eigi[2] at bera hann til bygða, þá heyrði hann til íshögga-gangs; var þar þá kominn faðir þeirra með sleða, lætr hann Trausta í sleðann ok ekr honum heim til Íngjaldshvols. Víglundr reið einn saman; lætr hann þá undir sæng sína í jarðhús eitt, ok var þar þá Ólöf fyrir ok batt sár þeirra; vóru þeir þar á laun, ok urðu græddir at heilu ok lágu þeir alla xij mánaði í sárum. Hólmkell lèt heygja sonu sína, ok þá menn sem með þeim höfðu fallit,

1) *[tf. 160; (511).*
2) enn Hd, 551.

heita þat nú síðan Kumlahaugar;[1] spurðist þetta nú víða, ok þótti öllum þetta mikil tíðindi, höfðu þat ok allir nær fyrir satt at Þorgrímssynir væri fallnir. Fundust þeir Hólmkell ok Þorgrímr ok skildi ekki þetta þeirra vinfengi, ok urðu á þat sáttir at leggja eigi þessi mál til laga nè dóma. En er Þorbjörg vissi þat þá sendi hún á laun til föður síns Einars[2], at hann skyldi taka vígsmálit eptir sonu sína, ok sækja sonu Þorgríms til fullra sekta ef þeir lifði. En þótt Einarr væri gamall ræðst hann fyrir málit ok sókti sonu Þorgríms bónda á Þórsnesþíngi til fullra sekta. Spurðist þetta heim í hèruð. Hásetar Hákonar sigldu fram um sumarit þegar þeir vóru búnir ok kómu við Noreg ok fundu Ketil, ok segja honum allt sem farit hafði, ok þótti honum seinliga á horfast um hefndina við Þorgrím ok sonu hans. Synir Ketils vóru þá nýkomnir úr víkíngu Gunnlaugr ok Sigurðr. Þeir vóru hinir frægustu menn. Gunnlaugr ofláti hafði þess heitstrengt, at synja öngum manni fars ef líf lægi við. Sigurðr inn spaki hafði þess heitstrengt at launa aldri illu gott. Ketill segir nú sonum sínum fall Hákonar, ok biðr þá at fara til Íslands ok hefna sinnar svívirðíngar ok drepa Þorgrím prúða. Þeir lètu seint við því, ok fóru þó sakir bænarstaðar föður síns; ok þegar er þeir kvómu í haf rak á fyrir þeim storma ok stórviðri ok velktust þeir úti allt til vetrnátta. Kvómu þeir þá við Snæfellsnes í þoku mikilli; brutu skipit við Öndverðanes; kvómust menn allir lífs á land en lítið nokkut af fè. Þorgrímr spurði þat, ok hverir menn á vóru; reið hann til móts við þá, ok bauð þeim til sín við alla sína menn ok þat þágu þeir ok vóru þar um vetrinn. Mikit fanst Sigurði um Helgu, en þó talaði hann fátt við hana. Aldri urðu

1) eða hryggir, *tf. 160, (511).*
2) til Lóns *tf. 160. (511).*

þeir varir við Þorgrímssonu. Þat var einn tíma er Gunnlaugr kom at máli við Sigurð bróður sinn ok mælti: skulu vit ekki leita til hefnda við Þorgrím? þvíat þat veit ek, at vit fám fullgott færi á honum. Sigurðr mælti: þetta er betr ótalað, þætti mèr ek þá launa illu gott, ef ek skyldi þann mann drepa, er mik hefir áðr tekit af skipbroti en gert við mik hvern hlut öðrum betr, skyldi ek heldr verja hann en vont gera ef (því) væri at skipta. Skildu þeir sitt tal ok kom Gunnlaugr aldri at því máli optarr við Sigurð. Líðr nú vetrinn, ok láta þeir bræðr búa skip sitt, ok vilja vera búnir at sumri til burtferðar; töluðu þat sumir menn at vel mundi hafa fallit á með þeim Helgu ok Sigurði, en þó kom þat eigi mjök á lopt fyrir alþýðu manna.

17. Nú víkr sögunni til Eireks jarls; hann gerðist maðr gamall ok dó af elli, ok tók Sigmundr son hans eignir eptir hann ok fekk öngva nafnbót af Haraldi konúngi, þvíat konúngr lagði heldr þykkju á alla frændr Þorgríms sakir vináttu við Ketil. Helgi hafði kvongast í Noregi, ok var kona hans önduð, er hèr var komit sögunni. Hann átti eina dóttur barna, er Ragnhildr hèt, kvenna fríðust. Helgi undi eigi í Noregi[1] ok fór til Íslands, ok kom í Austfjörðu seint í Landnámatíma; hann keypti land í Gautavík, at Gauta þeim er þat land hafði numit, ok bjó þar til elli. Nú skal nefna fleiri menn til sögunnar: Steinólfr hèt maðr, er bjó í Hraunsdal, hann átti þann son er Þorleifr hèt[2], mikill maðr ok efniligr, hann bað Ketilríðar, en hún vildi eigi eiga hann. Þorleifr talaði þar mikit um, at hann skyldi fá hennar þótt hún vildi eigi þar samþykki til gefa; mjök var Þorbjörg honum samþykk. En er svo var komit, at Þorgrímssynir vóru mjök alheilir orðnir sinna sára, spurðu

1) eptir Eirík jarl föður sinn, *tf. 160*, (*511*).
2) *sml.* Ldn. 2. 4.

þeir föður sinn, hvat hana legði til með þeim. Hann segir: þat þiki mèr ráð, at þit komit ykkr í skip með þeim bræðrum Gunnlaugi ok Sigurði, ok biðit þá fars um Íslandshaf, ok segit líf ykkart við liggja, sem satt er; þit skulut dyljast, en Sigurðr mun halda heitstrengíng sína ok flytja ykkr; er Sigurðr góðr drengr, ok munu þit af honum gott hljóta, enda munu þit ok þess við þurfa því at þar munu þit mín gjalda. Var þetta statt gert. Þat segja menn at Ketilríðr væri mjök harmþrúngin um vetrinn; svaf hún opt lítið ok vakti í saumstofu sinni um nætr. Þá sömu nótt er Víglundr ætlaði til skips um daginn eptir, þvíat þeir Ketilssynir vóru þá búnir til hafs, fóru þeir til Foss[1] ok gengu til stofu. Ketilríðr sat þar fyrir ok vakti en þjónustukonur hennar svófu. Hún fagnaði vel þeim bræðrum; hefir nú langt verit, segir hún, síðan er fundi vora bar saman, ok þiki mèr nú allvel, segir hún, er þit erut heilir ok vel til reika. Settust þeir bræðr þá niðr hjá henni ok töluðu lengi. Sagði Víglundr henni þá alla ætlan sína; lætr hún vel yfir því, þikir mèr vel, segir hún, þegar þèr gengr vel til, hversu sem um mik ferr. Gipzt þú eigi meðan ek er í burt, segir Víglundr. Faðir minn mun því ráða, segir Ketilríðr, þvíat ek má eigi, enda vil ek ekki, í móti honum gera, en vera má, at mèr sè ekki hægra en þèr, ef öðruvís verðr, en þó mun þat sínu fram fara. Víglundr bað hana skera hár sitt, ok þvó höfuð sitt; hún gerði ok svo. En er þat var gert mælti Víglundr: þat læt ek um mælt, at engin skeri hár mitt nè þvói höfuð mitt önnur en þú á meðan þú ert á lífi. Síðan gengu þau út öll saman. Þau skildu í túninu[2] úti; mintist Víglundr við Ketilríði, en hún grèt sárliga, var þá auðfundit, at þeim þótti mikit fyrir at skilja, en þó

1) Hofs Hd.
2) túnum Hd.

varð svo at vera; gekk hún þá inn í stofu sína en þeir fóru veg sinn. Þá kvað Víglundr vísu áðr en þau Ketilríðr skildu:

Mær, nem þú mínar vísur,
munnfögr, ef þú vilt kunna,
þær munu þèr at gamni,
þorngrund, koma[1] stundum;
en ef ítrust verðr úti,
eygerðr, litin freyja
þá muntú mín, en mjófa,
minnast hverju sinni.

En er þeir vóru komnir skamt úr garði, þá kvað Víglundr aðra vísu:

Stóðu vit tvau í túni,
tók lín um mik sínum
höndum haukligt kvendi
hárfögr ok grèt sáran;
tíit flugu tár of[2] tróðu,
til segir harmr um[3] vilja,
strauk[4] drifhvítum dúki
drós um hvarminn ljósa.

Litlu síðar er Ketilríðr kom í stofu sína kom Hólmkell bóndi þar, ok sá dóttur sína grátna mjök; hann spyr hví[5] henni yrði svo ósvefnsamt. [Hún svarar ok kvað vísu:

Skamt leidda ek skýran
skrauta-njörð úr garði
þó fylgdi hugr minn honum
hverskyns-konar lengra;

---

1) verða, 551.
2) af Hd.; um 551.
3) *mgl.* *i* 511; harm 2, 551.
4) 160, 511; með *tf.* Hd. 551.
5) 511; því Hd.

munda ek leitt hafa lengra
ef land fyrir lægi væri
ok ægis-mar yrði
allr at grænum velli.

Síðan mælti Ketilríðr ok svaraði föður sínum[1] mèr kemr í hug fall bræðra minna. Vildir þú láta hefna þeirra? segir hann. Þat skyldi prófast, ef ek væri svo karlmaðr ok mikils ráðandi sem nú er ek kona. Bóndi segir: vit þat fyrir satt, dóttir, at ek hefir þat fyrir þína skuld gert, at ganga ekki at þeim bræðrum, þvíat ek veit at þeir lifa, ok dylst þú ekki fyrir mèr, á hvorn máta er þú vilt vera láta, þvíat ek skal þegar ek get drepa þá ef þat er þinn vili. Hún svaraði þá: at því síðr skyldu þeir drepnir ef ek skyldi ráða, at hvorgi skyldi hafa verit sekr gerr ef ek skyldi ráða ok svo penínga til gefa þeim til farareyris, ef ek ætti, og svo skyldi ek öngvan mann eiga nema Víglund ef ek skyldi kjósa. Hólmkell stóð þá upp ok gekk út ok tók hest sinn ok reið eptir þeim bræðrum. En er þeir sá hann þá mælti Trausti: þar ríðr Hólmkell ok er einn saman, ok er eitt til ef þú vilt fá Ketilríðar, ok er þat þó eigi gott, at drepa Hólmkel en taka Ketilríði. Víglundr segir: þó at þat væri á baugi[2] at ek sæi aldri Ketilríði hèðan af, þá vilda ek þat þó heldr en gera Hólmkeli nokkut mein, ok lítt mynda ek honum þá dygð, er hann hefir mèr veitta, slíka harma sem hann ætti mèr at launa, enda mun Ketilríðr nóga harma bera, þó eigi sè drepinn faðir hennar, sá sem henni vildi allt gott. Svo er ok bezt, segir Trausti. Nú skulu vit, segir Víglundr, ríða [í túnit[3] fyrir hann, er honum þat sæmdarauki; ok svo gerðu þeir. Ok ríðr Hólmkell fram um þá

1) *fra* [hún segir, þvíat, 551; *Verset mgl. ogsaa i 160, (511.)*
2) baki Hd. 551; bugi, 160, (511).
3) [af veginum, 160, 511; í tómi 551.

ok snýr síðan heim aptr; þeir bræðr fara nú aptr á götuna ok sjá þar fè ok gullhríng með rúnakefli; þar eru ristin á öll orð þeirra Ketilríðar ok Hólmkels, ok þat með, at þetta fè gefr hún Víglundi.

18. Síðan fóru þeir til skips ok vóru þeir Gunnlaugr til hafs búnir ok stóð vindr af landi. Víglundr kallar út á skipit ok spyrr hvort Gunnlaugr væri á skipinu, eðr hvort hann vildi veita honum far um Íslandshaf. En hann spyr hverir þeir væri. Annarr nefndist Vandráðr en annarr Torráðr. Gunnlaugr spyr hvat þá drægi til utanferðar, en þeir segja líf sitt við liggja. Hann bað þá ganga út á skipit, ok svo gerðu þeir. Draga þeir síðan segl sín ok sigla þeir í haf; en er þeir höfðu siglt um stund spyr Gunnlaugr hinn mikla mann hví[1] hann nefndist Vandráðr. Því nefndist ek Vandráðr, segir hann, at þar eru nóg til vandræði mín, en ek heiti Víglundr, en bróðir minn Trausti, eru vit synir Þorgríms prúða. Þá þagnar Gunnlaugr ok mælti síðan: hvat er nú til ráða? Sigurðr bróðir, segir hann, þvíat nú er úr vöndu at ráða, þvíat ek veit, at Ketill faðir okkar mun láta drepa þá þegar þeir koma til Noregs. Sigurðr segir: ekki spurðir þú mik þessa, þá er þú tókst við þeim, en þekta ek Víglund af Helgu systur sinni er ek sá hann; þikir mèr þèr vera sjalfrátt, at [Ketill faðir minn[2] hafi ekki meira vald á þeim en þú vilt; mættir þú ok svo helzt launa þeim fyrir þat, er Þorgrímr hefir vel til okkar gert. Þetta er vel mælt, segir Gunnlaugr, ok gerum svo. Þeir fá nú góða byri ok kvómu við Noreg, ok fara heim í Raumsdal; var Ketill ekki heima; en er hann kom heim, vóru synir hans í stofu ok sátu Þorgrímssynir í millum þeirra. Þeir vóru saman iiij ok xx. Ekki heilsa þeir föður

1) 551, því Hd.
2) [160; hann, Hd. 551.

sínum. Settist hann í hásæti sitt. Hann þekti þar sonu sína en ekki þá Þorgrímssonu; hann spurði því þeir heilsuðu honum ekki, eðr hverir þeir væri hinir ókunnu menn. Sigurðr mælti: annarr heitir Víglundr en annarr Trausti, synir Þorgríms prúða. Ketill mælti: standit upp, allir mínir menn, ok takit þá; vilda ek, at svo væri hèr kominn Þorgrímr hinn prúði ok skyldi þeir svo allir fara. Sigurðr spaki svarar: mikill er þá munr vorr Þorgríms prúða, en hann tók okkr bræðr af skipbroti, ok gerði við okkr hvern hlut öðrum betr, en hann átti alls kost við okkr, en nú viltú drepa sonu hans saklausa; munu vèr kompanar verða yðr skeinuhættir áðr en Þorgrímssynir eru drepnir, þvíat eitt skal yfir oss ganga alla saman. Ketill segir, at ófært sè at berjast við sonu sína, rennr honum þá reiði. Sigurðr mælti: þá vil ek þat til leggja, at Gunnlaugr bróðir minn geri um öll málin, þvíat hann er reyndr at rèttdæmi. Ketill segir: þat mun verða at vera heldr en vær feðgar deilim illdeilum. Varð þetta statt gert. Gunnlaugr mælti: þat er þá mín gerð, at Þorgrímr skal eiga sjálfr konuna, svo skal hún hafa fyrir gert öllum arfi eptir Þóri jarl föður sinn, skal faðir minn at rèttu taka arf eptir hann, en faðir minn skal gipta Íngibjörgu dóttur sína Trausta Þorgrímssyni en Sigurðr spaki skal eiga Helgu Þorgrímsdóttur. Læt ek þessa mína gerð standa. Öllum þótti þetta vel gert ok vitrliga, undi Ketill vel við þar sem þá var komit. Sátu þeir þar um vetrinn í góðu yfirlæti; fèkk Trausti Íngibjargar, en at sumri fóru þeir í hernað allir fóstbræðr; vóru þeir hinir frægustu menn ok bar þó Víglundr langt af þeim öllum; vóru þeir þrjá vetr hina næstu í þessum hernaði. Var Víglundr þó aldri með meira gleðibragði þá en fyrr, þvíat honum gekk Ketilríðr aldri úr hug.

19. Nú er þar til máls at taka sem Hólmkell bóndi

sat heima at Fossi. Þat var einn dag er hann reið til Íngjaldshvols, ok vissi engi maðr tal þeirra Þorgríms. Eptir þat fór Hólmkell heim. Þorleifr[1] Steinólfsson hèlt enn á bónorðinu við Ketilríði, en hún tók ekki fljótt Litlu síðar sendir Þorgrímr heiman menn sína þrjá ok vóru þeir í burtu iij vikur, ok kvómu heim síðan, ok vissu engir hvert þeirra erindi var. Þat bar til tíðinda einn dag at Fossi, at þar kvómu xxx menn. Hólmkell spyr foríngja þeirra at nafni, en hann kvaðst Þórðr heita ok eiga heima í Austfjörðum, en kvað þat erindi sitt, at biðja Ketilríðar. Bóndi veik til dóttur sinnar; varð hún þá spurð at, ok tók hún þessu fjarri, ok þótti vera maðrinn gamall, en kvaðst öngan hug hafa á at giptast. Þorbjörg fýsti mjök at kaupit skyldi fram ganga, ok þær urðu málalyktir, at Hólmkell gipti konuna Þórði, hvort henni var ljúft eða leitt, ok fór hún þangat með Þórði; skyldi brúðhlaupit vera í Austfjörðum. Linna þau eigi fyrr en heima, tók Ketilríðr þar við öllum ráðum. Þó sá menn aldri gleðimót á henni. Eigi gerði Þórðr brúðhlaup til hennar. Í einni sæng lágu þau bæði saman. Eitt sparlak var þar fyrir. Leið svo fram langar stundir. Þorleifr[2] undi illa við er Ketilríðr var gipt, en þótti ekki hægt til atgerða, er hún var svo langt í burtu. Þórðr gerði alla hluti vel til Ketilríðar, ok gagnaðist henni þat ekki fyrir þeirri ást er hún hafði á Víglundi, þvíat hún bar logandi ástareld sèr í brjósti fyrir hans skuld.

20. Víglundr ok þeir fóstbræðr allir kvómu þetta sumar úr hernaði; tók Ketill vel við þeim. Einn dag er þeir vóru kallaðir til höfuðþvottar, þá svarar Víglundr:

1) 551; Þórólfr Hd.
2) Þórólfr Hd.

öngvan höfuðþvott mun ek hafa, ok öngvan hefir ek haft síðan vit Ketilríðr skildum. Hann kvað þá vísu:

Laugauðig[1] strauk lauðri
líneik um skör mína,
því er mèr enn til annars
úbrátt höfuðþváttar:
öllúngis skal engi
auði glæst [hit næsta[2]
ein á aldri mínum
asklaugar mèr vaska.

Lèt Víglundr ekki vaska sèr. Sátu þeir um kyrt þann vetr; en at sumri bjuggust þeir til Íslands á sínu skipi hvorir, ok sigldu þeir í haf, ok skildu þeir í hafi, ok kvómu Ketilssynir í Hvítá, ok fóru vistum til Íngjaldshvols, segja Þorgrími af sættum þeirra Ketils, ok svo, at sona hans væri út von, gladdist Þorgrímr við þetta allt saman. Þeir Víglundr sigldu þar til er þeir sá Snæfellsjökul. Þá kvað Víglundr vísu:

Sè ek á fjall þat er fjötra[3]
framlunduðust sitr undir,
þó renn ek til hennar,
hugrekk[4], vinaraugum:
þá brekku [kveð ek mèr[5] þekka.
þrúðr er þar sitr[6] hjá prúðri,
hlaðs[7] sem hlíðir aðrar
hugþekk er mèr nokkut[8]

1) Langauðig, 551., Hd.?
2) [hin rauða, 551.
3) fjortror Hd.
4) hugreik 551, hugrekk ok Hd.
5) kveða, 551.
6) stendr 551.
7) hlað, 551; hlaðin, Hd.
8) *Dette Vers mangler i 160, 511.*

Enn kvað hann:

Ljóst er út at líta,
laukareið, yfir heiði;
sól gengr síð undir múla,
slíkt langar mik þangat:
fjöll eru mèr þekk af þellu[1],
því er ek hljóðr, valin tróða,
víf á ek vænst at leyfa,
valgrund, er þar sitr undir.

Þar næst kom vindr ofan af nesinu svo mikill, at þá rak á haf út, [ok kom þá at vestanveðr, ok gerði veðráttu harða, ok stóðu menn jafnan í austri[2]. Þat var einn dag, at Víglundr sat á búnka; var þá veðr allhvast. Hann kvað þá vísu:

Ketilríðr bað ei kvíða
karlmann í för snjallri
úngan þótt öldur gangi
jafnhátt skeiðar[3] stafni:
enn er á orð at minnast,
verum hraustir nú, Trausti,
verð ek af harmi hörðum
hríðlundr, Ketilríðar.

Mikit er nú um, segir Trausti, er þú nefnir hana við niðrlag ok upphaf í vísu þinni. Þiki þèr svo, frændi? segir Víglundr. Þeir vóru úti lx daga; tóku land með nauðum í Austfjörðum í Gautavík. Víglundr mælti þá: þat þiki mèr ráð, bróðir, þvíat vit eigum sökótt, at þú nefnist Hrafn en ek Örn. Bóndi úr Gautavík kom til skips. Stýrimenn tóku vel við honum ok buðu honum at taka þat af varníngi er hann vildi. Bóndi segist eiga konu únga,

1) 551; þöllu, Hd.
2) *[tf. 551.*
3) skut, 551.

skal hún koma til skips[1], ok taka af varníngi ykkrum slíkt er hún vill. Reið bóndi nú heim, en húsfreyja kom um morguninn; þekti hún þegar Víglund er hún sá hann ok gaf sèr fátt at, en Víglundi brá mjök við er hann þekti hana; tók hún slíkt af varníngi, er hún vildi; var henni allt til reiðu. Bóndi hafði boðit heim stýrimönnum, ok er þeir kvómu heim gekk bóndi ok húsfreyja í móti þeim, þá skriðnuðu bónda fætr, því hann var stirðr af elli. Húsfreyja mælti, ok þó heldr lágt: illt er at eiga gamlan mann. Þar var ok sleipt næsta, kvað bóndi. Vóru þeir síðan inn leiddir með mikilli sæmd. Ekki ætlaði Víglundr. at Ketilríðr mundi kenna hann. Þá kvað Ketilríðr vísu:

Kenni ek Víglund vænan
vónar-elds at kveldi,
[firn er[2] at fund minn girnist,
flaustra eims ok Trausta:
gipt er gullhlaðs þópta
grannvaxin[3] nú manni,
ei mun eldri finnast
annarr þeim í heimi.

Nú sátu þeir þar um vetrinn, ok var Víglundr harðla óglaðr en Trausti var hinn kátasti ok bóndi var hinn kátasti, ok veitti þeim með blíðu. Svo er sagt at Ketilríðr hafi haft hinnu fyrir andliti sèr ok hafi eigi viljat at Víglundr hafi þekt sik, ok þat, at Víglundr hafi eigi verit ráðinn í því at þekkja hana.

21. Þat var einn dag er Ketilríðr var úti stödd. Henni var þá varmt mjök. Hún hafði sprett hinnunni frá andliti sèr. Víglundr gekk út í því, ok sá gerla ásjónu hennar.

---

1) á morgun *tf.* 160.
2) firn en 551; finn ek, Hd.
3) 551; grandvaxin, Hd.

Honum brá mjök við þetta ok setti rauðan sem blóð. Hann gekk þá inn í stofu, ok var Trausti þar fyrir, ok spyr hvat honum væri, eðr hvat hann hafi þess sèt, at honum brygði svo við. Víglundr kvað vísu:

Leit ek aldri[gi] auga[1]
ormasetrs[2] til betra,
ek lýg at þèr eigi,
auðar bil [sízt vit skildum[3];
þess skal ek háls frá herðum,
[hart biðag[4] þeim, sníða,
angr hlaut ek auðs af spöngu,
args[5] karls er þá faðmar.

Aldri hafði Ketilríðr hinnu fyrir andliti sèr þaðan frá er hún vissi at Víglundr kendi hana. Trausti segir: þat er hit mesta óráð, at gera bónda nokkut mein [svo vel sem hann hefir gert til okkar, ok mundi okkr þat til ógæfu verða ef þú dræpir bónda hennar saklausan[6] ok leið þik þar frá, ok kvað vísu:

Þit munut, brendra bauga
brjótr, aldrigi njótast,
ef þú gæðíngi[7] góðum
grandar fofnis landa:
áhlaup munu eigi
einhlít vera rítar,
taka skulum rètt til ráða,
raunfróðligr[8] bróðir.

---

1) eyði, 511.
2) 551; ormasetr, Hd.
3) *saal.* 551, 160; [at vilja Hd.
4) 551; hnitbaug 160, með hrotta, 511; hratt biða af Hd.
5) ármligs 160, (511).
6) [*tf.* 551.
7) gæðingr Hd., 551
8) raun fróðligra 160, raun fróðliga, 511; raunfróðligar, 551.

Líðr nú á kveldit, ok fara menn til náða. Um nóttina stóð Víglundr upp ok gengr til sængr þeirrar, er þau Ketilríðr ok bóndi svófu í. Ljós var upp dregit í skálanum svo at sjá mátti [allt hit efra, en dimt var hit neðra[1]. Hann bleypti upp fortjaldinu; sèr hann at Ketilríðr horfir til þils en bóndi horfir fram at stokki, ok hefir lagt höfuðit fram á stokkinn sem bezt undir höggit; þá ætlaði Víglundr at bregða sverðinu, ok í því kom Trausti at ok mælti: varast þú, segir Trausti, ok ger ekki þat fordæðuverk at drepa sofandi mann. Lát öngvan á þèr finna at þú hafir hug á konu þessi, ok ber þik sem karlmannligast. Þá kvað Trausti vísu:

Mundu mey þá er grandar,
minn vinr, gleði þinni;
lýttú hèr fremdar flýti,
feginlitr gerir segja,
skalattu[2], skrautlig[3] silkis
skorð þó at þèr hafi orðit
ein at yndis tjóni,
uppskátt[4] um þat láta.

Þá sefaðist Víglundr, en þat undraðist hann, at svo var í millum þeirra langt í sænginni. Gengu þeir bræðr þá til sængr sinnar ok svaf Víglundr lítið þá nótt. Um morguninn eptir var Víglundr allókátr, en bóndi allkátr, ok spyr Víglund hvat honum væri at ógleði, Víglundr kvað þá vísu, er allir ætluðu Örn heita:

Mik hefir mundar jökla
mjallhvít[5] numit allan[6]

1) *tf.* 160, (511).
2) skalkattu, 160; skulu Hd. 551.
3) skrautligs, 160, 511; hraustligs Hd. 551.
4) 551; upp kast, Hd.
5) 160; malmhvít Hd.; malhvít, 551.
6) *saal.* 160, 551; rítar, Hd.

strangr í storma[1] bíngi
straumr, mik kona[2] flaumi;
aldri gengr hin únga
eik þótt við mik leiki,
[fljóð hygg ek at kvell kunni[3],
kona þín úr hug mínum.

Vera má at svo sè, segir bóndi. Þikir mèr nú ráð, at vit skemtim okkr ok teflim; ok svo gerðu þeir. Lítt gáði Örn at taflinu fyrir hug þeim er hann hafði á húsfreyju svo at honum var komit at máti. Ok í því kom húsfreyja í stofuna ok sá á taflit ok kvað þenna vísuhelmíng:

Þoka mundir þú þundar
þinni töflu hinn gjöfli,
ráð eru tjalda tróðu,
teitr [at öðrum[4] reiti.

Bóndi leit til hennar ok kvað:

Enn er mótsnúin manni
menlín í dag sínum,
einskis má nema elli
auðbaldr frá þèr[5] gjalda.

Örn tefldi þat er til var lagt ok var þá jafntefli. Fátt töluðust þau við húsfreyja ok Örn. Þat var einn tíma er þau fundust úti [tvau ein[6] Víglundr ok Ketilríðr; þau töluðust við nokkut ok þó ekki lengi, ok kvað Víglundr vísu þessa er þau skildu talit:

Svo lízt mèr, in mjófa,
maðr þinn, en brúnfagra[7],

1) stjórnar, 551.
2) koma Hd. 551; kom á, 160
3) [fljóð hyggr at kel knúði, 160.
4) [af einum, 160.
5) 551; mer, Hd.
6) [*tf.* 551.
7) brenfagra, Hd

sem fáneytr flljóti
ferjubátr með skerjum:
en þá ek sè þik sjálfa
strangvaxna fram ganga
er[1] sem skrautlig skríði
skeið yfir máfa heiði[2]

Síðan skildu þau tal sitt ok gekk Ketilríðr inn, en Örn gengr þá til tals við bónda, var hann þá glaðr við stýri mann. Örn kvað vísu:

Haltú vörð[3] á vænni,
vinr minn, konu þinni,
láttú eigi gná geira
ganga mèr at angri:
eigi veit ef[4] úti
opt finnumst bil tvinna
hlökk at hvorum okkrum
heimilari verðr seima[5]

Ok enn kvað hann þessa aðra:

Vilda ek verða aldri,
Víglundr, at því fundinn
at vera svo tamr við tróðu
at taki ek manns konu annars:
nema at mèr í myrkri
mannligr kæmi svanni,
þat tek ek undan eiði
at (ek) ei til hennar þreifi[6]

Bóndi segir vel dugi þó at hún sæi fyrir. Skildu þeir sína

---

1) ok er Hd.
2) *Verset mgl. i 551, 160, 511.*
3) vörn, 160, (511).
4) 551; hvar, Hd.
5) 160, (511); heima, Hd. 551.
6) *dette Vers mgl. i 160, (511).*

ræðu. Hvern hlut gerði bóndi öðrum betr til stýrimanns, en þat gagnaðist honum ekki; var hann óglaðr maðr, svo at hann kvað aldri gleðiorð, en þetta þótti bróður hans Trausta svo mikit mein, ok talaði opt um fyrir honum, at hann skyldi af hyggja, ok fá sèr (aðra) konu; en Örn segir, at þat mundi ekki verða, mun ek því öngri slíkt unna, enda mun ek ok ekki því fram fara, ok kvað þá vísu:

Ann ek þó úthallt renni
eikikjölr enn fölvi,
muna[1] minn hagr þikkja
mannligr, konu annars,
Eigi kann ek ef önnur
jafnblíð verðr mèr síðan,
[vindr rak knör úr klandri[2],
kvinna nokkuru sinni.

Svo má vera, segir Hrafn; gengu þeir þá til stofu; sat bóndi þar fyrir, ok húsfreyja í knjám honum; hèlt bóndi um hana miðja; sá Örn, at henni var ekki mikit um þat. Fór hún úr knjám honum, ok settist niðr í bekkinn ok grèt. Örn gekk þangat okk settist niðr hjá henni, ok töluðust við hljótt. Hann kvað þá vísu:

Svo vilda ek þik sjaldan,
svinn brúðr, koma at finna
hörfi[3] glæst at hristi
hrumr maðr at þèr krumur:
heldr vilda ek halda,
hlín, at vilja mínum
lýsigulls í landi,
liðar elds, um þik miðja,

1) 551; mun ei, Hd.
2) 160; [vindr (mundr 551) rakkr knörr klandri Hd ; 551.
3) hjörfi Hd.

Eigi er[1] þat víst, segir húsfreyja, at [þat muni svo verða[2]. Stendr hún þá upp ok gengr í burt; en bóndi var þá allkátr ok mælti: þat vil ek nú, Örn, segir bóndi, at þú hugsir um bú mitt, ok annat þat er mik varðar á meðan ek er í burtu, þvíat ek hefir ætlat mèr heimanferð, ok mun ek skemst í burtu mánuð; treystir ek þèr bezt til alls þess er mik varðar mestu. En Örn gefr sèr fátt um.

21. Síðan fór bóndi heiman við enn xv. mann. Örn talar þá við bróður sinn: þat þiki mèr ráð, segir hann, at vit ríðim heiman, ok sèm eigi heima á meðan bóndi er í burtu, þvíat þat mun elligar ætlað, at ek fífli konu hans, ok er þá mikill mannamunr okkar bónda. Riðu þeir nú heiman, ok vóru hjá kaupunautum (sínum) þar til at bóndi kom heim í nefndan tíma, ok var nú heldr fjölmennari en áðr. Þar var í för Þorgrímr hinn prúði ok Ólöf kona hans ok Helga dóttir hans ok Sigurðr spaki ok Gunnlaugr bróðir hans, Hólmkell bóndi frá Fossi. Vóru þeir saman fimtigir. Þá kvómu ok heim stýrimennirnir. Ketilríðr hafði við búizt eptir því sem bóndi hafði henni fyrir sagt; ætlaði hann nú at veita brúðhlaup sitt. En er þeir sátu í stofu allir, stóð bóndi upp ok mælti: svo er mál með vexti, Örn stýrimaðr, at þú hefir verit hèr í vetr ok þit báðir bræðr, ok veit ek, at þú heitir Víglundr en bróðir þinn Trausti, ok eru þit synir Þorgríms prúða, ok eigi síðr (vissi ek) hvern hug er þú hafðir á Ketilríði; hefir ek þèr margar skapraunir gervar, ok hefir þú þær allar vel borit, en þó hefir bróðir þinn því ollat, at þú hefir þik í öngri óhæfu haft eðr gert, en ávalt átta ek meira undir mèr. Nú skal ek ekki leyna þik lengr at ek heitir Helgi, ok er ek son Eireks jarl en föðurbróðir þinn; bað ek því Ketilríðar, at ek vilda geyma hana þèr til handa, ok er

1) okkr *tf.* Hd.
2) [at okkr verði þess lagit, 160, (511)

hún óspilt af mèr; hefir Ketilríðr allt þat vel borit ok kvennliga; var hún þess alls duld af mèr ok öðrum; höfum vit ok aldri undir einum klæðum legit, því at rekkjustokkr tekr upp á millum rúma okkra þó at vit höfum haft eitt áklæði; ætla ek at henni hafi þat engin raun verit nè skript, þó at hún kenni öngvan mann á meðan þú lifir. Er þetta allt ráð Hólmkels bónda, ok þikki mèr nú ráð, at þú sættist við Hólmkel bónda, en biðir síðan dóttur hans; mun hann láta þik ná sættum, miklu hefir honum betr farit ok prýðiligar í yðrum viðskiptum. Víglundr gengr þá at Hólmkeli bónda, ok leggr höfuð sitt í knè honum, ok biðr hann gera af slíkt er hann vill, en hann svaraði á þá lund: á þínum hálsi mun þat vera bezt komit, því at svo mun Ketilríði minni bezt líka, ok skulu vit at vissu sættast. Var nú svo at Hólmkell gipti Ketilríði dóttur sína Víglundi, en Þorgrímr Sigurði spaka Helgu dóttur sína, en Helgi Gunnlaugi ofláta Ragnhildi dóttur sína, ok var nú setið at þessum brúðhlaupum öllum í senn. Síðan fór hverr heim til síns heimilis. Undu þau Víglundr ok Ketilríðr nu allvel sínu ráði, ok bjuggu at Fossi eptir Hólmkel bónda föður Ketilríðar, en Gunnlaugr ofláti ok Sigurðr bróðir hans fóru utan ok staðfestust í Noregi, en Trausti at Íngjaldshvoli eptir Þorgrím bónda föður sinn, ok lýkr hèr þessi sögu[1]. At henni má þykja mikit gaman, geymi[2] guð oss alla saman; lyktist svo endir at vær sèm allir guði sendir; sá þessar sögur girnist segja, hann þarf ekki löngum þegja; vær köstum allir kvölum ok mæði ef kappar girnast ágætt æði; sögur ok mentir ok signuð fræði ok síðan eptir sannleiks gæði. Hafi þeir þökk er hlýddu, þeir er söguna þýddu,

---

1) *Her slutter 511.*
2) gleði. 551.

ok Þorgeir[1] er letrið skráði; sjálfr guð ok Maria þá alla náði. Þrír feðgar hafa skrifat bók þessa ok biðit til guðs fyrir þeim öllum. Amen[2].

---

1) *saal.*? þg² Hd.

2) *551 slutter saal.* . . . þarf ekki löngum at þegja. Hafi þann þökk sem þær (sögur) hefir samansett. ok skrifat. Amen.



# Þórðar saga hreðu[1].

Hrólfr i Bergi Upplendínga konúngr var faðir Sölga konúngs, föður Böðvars konúngs, (föður) Kauns[2], föður Þóris konúngs svíra, föður Ónars[3] konúngs, (föður) Arnar hyrnu; hans synir vóru þeir Þorleifr hvalaskúfr, faðir Böðvars snæþrymu, föður Þorleifs miðlúngs; annarr Áslákr Bifrukári[4], faðir Ketils Hörðakára[5]; hann var ágætr maðr, ok rèð fyrir Upplöndum; hann lagði undir sik iij konúnga af sinni hreysti ok harðfengi, ok eignaðist þeirra ríki. Hann átti mörg börn, ok er frá honum kominn hinn gildasti ættbogi ok mart stórmenni. Þessi vóru börn Hörðakára: Þorleifr hinn spaki, Ögmundr, Ölmóðr enn gamli, Þórðr hreða, Þóra móðir Úlfljóts er lög hafði til Íslands. Ögmundr var faðir Þórólfs skjálgs, föður Erlíngs á Sóla. Ölmóðr enn gamli var faðir Áskels, föður Ásláks fitjaskalla, föður Sveins bryggjufóts, föður Bergþórs bukks, föður Sveins. Úlf]ljótr[6] son Þóru Hörðak[áradóttur hafði út lög til Íslan]ds at ráði Þorleifs ens spaka [móðurbróður síns, þau er sí]ðan vóru kölluð Úlfljótsl[ög. En er hann kom út, var alþíngi set]t, ok höfðu allir menn síðan [ein lög hèr á landi. En lög þ]au vóru sett flest at því

1) *Efter Add. 20 folio*; *564 a. 4to.* (Vatnshyrna; *Mbr.*) *og Papirsafskriften* AM. *486. 4to (og 564 4to).*

2) Kaums Hd.

3) Ánars, Hauksbók; Áns, Landn.

4) biflu karl Hd.

5) *Stemmer med* Hauksbók (Landn. 4. 7, *S. 257, Note 15.*

6) ljótr. *Med dette Ord beg. Mbr.-Fragmentet. Omtrent de 3/5 af Spalten paa venstre Side ere bortskaarne. Hvad der staaer mellem [ ] er taget af Papirsafskriften* AM. *486 4to. det som ikke er indelukket ere de i Mbr. tilbageblevne Ord.*

[sem þá vóru Gulaþíngslög ok] eptir ráði Þorleifs ens spaka [hvar við skyldi leggja eða af tak]a. Þat var upphaf laga þeirra, [at menn skyldi eigi sigla at land]inu með gínandi höfð[um eðr gapandi trjónum, s]vo at landvættir fældist [við. En þá er landinu var skipt] í fjórðúnga, skyldu [vera iij þíng í hverjum fjórðúng]i, en iij höfuðhof í h[verju þíngi. Þar vóru menn vanda]ðir til (at) varðveita hofin at [hyggindi ok rèttlæti. Þeir sky]ldu dómnefnur eiga á þíng[um ok stýra sakferli; þeir vóru ka]llaðir hofgoðar. Hverr maðr [skyldi gefa toll til hofs, sv]o sem nú er kirkjutíund. [Baugr tvíeyríngr eðr meiri] skyldi liggja á stalli í [höfuðhofi] hverju; þann bau]g skyldi hofgoði[1] hafa á hendi til [allra mannfunda ok rjóða hann þar] í roðru blótnauts þess [er hann blótaði. Hann skildi vinn]a eið at baugi, ok nefna[votta í þat vætti, at hann ynni lö]geið at baugi: hjálpi mèr [svo Freyr ok Njörðr ok] Áss enn almátki sem ek skal [svo sök sækja eðr verja, eð]r vætti bera, eðr kviðu kveða, [eðr dóm dæma, ok öll lögmæ]lt skil af hendi leysa, sem [ek veit rèttast ok sannast ok] helzt at lögum, þau er [undir mik koma[2]. Svo sagði vi]tr maðr Þormóðr, er þá var als[herjargoði, at með þessum orð]um ok þíngmörkum helguðu [langfeðgar hans alþíngi[3] alla æ]fi. Gunnarr hèt son Laga-Úlf[ljóts, hann átti Þóru, dóttur Helga] ens magra; þeirra, son var Keti[ll í Djúpadal.]

2. [Þórðr hreða var fyrst] kallaðr son Ketils Hörðakára, hann var ágætr [maðr á Upplöndum; hans son] var Klyppr hersir; annarr [son hans var Steingrímr,] þriði Eyjólfr; Sígríðr hèt [dóttir hans. Klyppr hersir var enn]

---

1) *dette Ord mgl. i Mbr. og 486.*

2) *sml.* Þorsteins þáttr uxafóts *Cap. 1.* (Flateyjarbók I., 249; *og* Hauksbók (Landn. 4. 7.)

3) *mgl. i 486, men staaer i 564.*

ágætasti maðr af örfi [sinni ok algerfi, eptir því sem] foreldri hans var til; hann átti [Ólöfu Ásbjarnardóttur; þeirra dóttir hèt] Guðrún, kvenna vænst [ok vitrust ok skörúngr enn m]esti. Þórðr hreða kvángaðist [í elli í annan tíma eptir er] hin fyrri kona hans var dauð. [Hann fèkk þá Helgu Vemun]dardóttur jarðlokars[1], Þórólfssonar [váganefs, Hrærekssonar s]löngvanbauga, Haraldssonar [hilditannar Danakonungs[2]]. Þá færði Þórðr bygð sína [í ey þá er Hísíng hèt; hann var] þá bæði gamall ok sköllóttr; [var þá skipt um viðrnefni[3]] hans, ok var hann þá kallaðr Þórðr[4] [Hísíngarskalli.

3. Bárekr er maðr nefndr, hann rèð fyrir eyjum þeim, er Brenneyjar heita, hann var berserkr, svo menn kölluðu hann eigi einhama, fjölkunnigr var hann, ok at flestu illa fallinn; hann hafði hár bæði stórt ok svart[5], því var hann Brenneyjarfaxi kallaðr. Bárekr gerði ferð sína til Hísíngar ok bað Sigríðar dóttur Þórðar, en hún vildi eigi gera at því; við þat reiddist Bárekr, ok kveðst því skyldu þann drepa er hennar bæði. Við þat reiddist Þórðr hreða ok skoraði á hólm Báreki innan iij. nátta; var Þórðr áttræðr at aldri. Helga kona hans var kviðug at barni. Þórðr var svo búinn, er hann á hólminn gekk: hann hafði hjálm á höfði en sverð í hendi; refil hafði hann vafit um enn vinstra armlegg sèr; ekki hafði hann hlífar fleiri, en Bárekr hafði hjálm á höfði, ok brynju, en sverð í hendi, skjöld á hlið; hann átti fyrri at höggva. En er hann hjó til Þórðar, brá hann við sverðinu hendinni ok bar svo af sèr höggit, en hjó annari hendi til Báreks ok stefndi á höfuðit, en Bárekr

1) *saal.* Hd. *ur. for* örðlukárs *sml.* Crymog S. 119.
2) *sml.* Landn. 5, 1; Njáls saga k. 25.
3) nöfn við hann 486.
4) *Her slutter Mbr.-Fragmentet.*
5) *saal.* 564; mikit, 486.

bar upp fyrir skjöldinn. Þórðr lèt skjótt síga sverðit ok slæmdi til niðri, ok undan honum fótinn þar er kálfinn var mestr. Fèll Bárekr þá ok mælti: nú munu vit skilja, því ek em sárr vorðinn. Leysti Bárekr sik þá af hólmi sem lög stóðu til, ok hèlt heim síðan. En er Þórðr kom heim, sá menn, at hann var sárr á vinstri hendi ok eigi mjök. Þat sár greri illa svo at blástr hljóp ok illindi í, ok þat varð honum at bana, þvíat eitr hafði verit í sverðseggjum Báreks. Síðan fæddi Helga sveinbarn, þat var vatni ausit ok nafn gefit, ok skyldi heita Þórðr eptir feðr sínum. Þat var merki á sveininum, at hann hafði ör á vinstra armlegg þar sem faðir hans hafði særðr verit; tók hann þá þegar auknefni föður síns, þat er hann hafði fyrri, ok var kallaðr Þórðr hreða. Móðir hans andaðist af sængrför[1], en Þórðr óx þar upp í Hísíng þar til er hann var xij vetra, var hann þá hverjum manni stærri ok sterkari, vænni ok vígligri, ok vel at íþróttum búinn[2]. Allir vóru þeir bræðr hans miklir menn ok sterkir, vænir ok stórmannligir sem þeir áttu kyn til. Sigríðr systir þeirra var kvenna vænst ok högust þeirra er þar uxu upp henni samtíða; þau vóru öll fulltíða menn þegar Þórðr var xij vetra. Nú býr Þórðr ferð sína úr Hísíng ok vill hitta Bárek föðurbana sinn. Þeir vóru xij á skipi jafnaldrar hans, ok kunni engi árarlag. En er þeir kómu skamt fram með landi, sá þeir skip stórt sigla í móti sèr; þar var þá kominn Bárekr, ok ætlaði at nema burt Sigríði. Hann spurði hverir á bátinum væri. Þórðr sagði til sín, ok spurði Bárek at eyrindum en hann sagði fyrirætlan sína.

---

1) *Her skyder 486 ind:* Önnur saga segir (*sml. den almindelige Saga*) Þórðr hreða gamli hafi orðið sóttdauðr, ok var útför hans veglig ger, *o. s. v.* — mikilmenni ef í ætt brygði *see* Þórðar s. *S. 3. L. 13—18.*

2) *Her skyder 486 og 564 endvidere ind:* harðgerr ok óvæginn — syndr var hann hverjum mann betr ok skald gott; *see* Þórðar s. *S. 3. L. 19—23.*

Þórðr svarar: fyrr vil ek skora þèr á hólm ok hefna svo föður míns, ef þess verðr auðit, en at þú hertakir systur mína. Bárekr kvað þat eigi barnafæri. Þó varð svo at vera, sem Þórðr vildi. Þórðr bar af sér hit fyrsta högg Báreks með skildi, en hjó undan Báreki fótinn fyrir ofan knè þann er heill var, en í öðru höggi hjó hann hõfuðit af Báreki. Fór Þórðr heim síðan í Hísíng, ok þótti hann mikit hafa vaxit af verki þessu.

5. Í þann tíma rèð fyrir Noregi Eirikr konúngr blóðöx; hann átti Gunnhildi konúngamóður; þeirra synir vóru þeir Haraldr gráfeldr, Gamli, Guthormr, Guðröðr, Sigurðr slefa, Ragnfröðr, Hrærekr, Eyvindr[1] ok Tosti. [Ok er Þórðr vóx upp, lysti hann til Gamla konúngs hirðar Gunnhildarsonar, er allra manna var vinsælastr í Noregi, ok rèðst til fylgdar við konúng. Litlu síðarr varð höfðíngja skipti í Noregi, kom í land Hákon Aðalsteinsfóstri, en Eirikr konúngr ok Gunnhildr urðu útrekin með sonum sínum ok landflótta. Varð Eirikr konúngr at Norðymbralandi. Hann tók skírn á Englandi ok fèll í víkíng. En þegar synir hans höfðu þroska til, lögðust þeir í hernað, ok vóru enu mestu stríðsmenn.

6. Dvaldi Þórðr hreða nú með Gamla konúngi, hann var þá xij vetra sem fyrr er sagt, ok virðist konúngi hann afbragðsmaðr um allt þat er hann skyldi reyna. Hann var með honum iij vetr, gekk hann jafnan í mannhættu fyrir konúngi í hverjum háska þegar konúngr var í bardögum, ok var hann enn röskvasti í öllum mannraunum, bæði at hug ok hjartaprýði, fèkk hann því mikla virðíng ok metorð; var hann af slíku víðfrægr ok dvaldist þar vel lengi

---

1) *saal. 486, 564, skal vel være* Erlíngr *sml.* Heimskr I. *126 og 188.* Tosti *bliver for saa vidt jeg veed blot nævnet her blandt* Eiriks Sönner.

í góðu yfirlæti[1]. Ok er hann hafði verit iij vetr með Gamla konúngi gekk hann fyrir konúng ok beiddi hann orlofs at vitja frænda sinna ok fara til Upplanda. Gamli konúngr svarar: leyfa skal þèr, Þórðr, at fara þangat sem þú vilt, en ósýnt þiki mèr um fundi okkra; en vel hefir þú með oss verit. Nú skulu vit eigi skildir at vináttu, þó vit skilim at samvistum. Hèr er eitt sax, er ek vil gefa þèr; vilda ek at þú lógaðir eigi, nema þú eigir lífi þínu at forða. Ok segir at gæfa hefir fylgt saxinu. Þórðr segir: þiki þèr þat sýnna, fóstri minn, at þat muni þurfa. Eigi þikkir mèr þat ólíkligt, segir Gamli, þvíat þú ert eigi ávalt jafnforsjáll ok fyrirleitinn um þinn hag ef þèr býðr við horfa. Ok skildu þeir Gamli með hinni mestu vináttu ok fór Þórðr til Upplanda ok fundust þeir Gamli aldri síðan. Litlu síðar fèll Gamli konúngr sem segir í æfi Noregskonúnga, ok gerði Haraldr gráfeldr með bræðrum sínum enn mesta úfrið í Noregi. En ena síðustu orrustu áttu þeir á Hörðalandi í Storð á Fitjum ok fèkk Hákon konúngr sigr ok banasár. Hann andaðist við Hákonarhellu; þar hafði hann ok fæddr verit, ok er hann heygðr á Sæheimi. Eirikssynir lögðu land undir sik, ok hètu þeir öllum mönnum lögum þeim sem Hákon konúngr hafði sett í landinu. Þeir gáfu ok höfðíngjum nafnbætr sem áðr höfðu haft feðr þeirra ok svo ríki. En er þeir vóru seztir í ríki ok festir í landi, þá þótti þeim of mikit vald hafa Sigurðr jarl í Þrándheimi; þeir kómu norðr til hans um nótt, tóku hús á honum ok brendu hann inni. Þeir drápu ok Guðröð konúng ok Tryggva föður Ólafs kon-

1) *fra* ⌊*er taget efter 564*; *istedetfor har 486*: Þórðr rèðst til fylgdar við Gamla Gunnhildarson, er allra manna var vinsælastr í Noregi af öllum konúngum þegar leið Hakon Aðalsteinsfóstri. Þá var Þórðr xij vetra, er hann rèðst til hirðar Gamla konúngs; virðist konúnginum hann afbragð annara manna um allt þat er hann skyldi reyna ok var með honum lengi í góðu yfirlæti. Gekk hann jafnan fyrir konúnginum í hverjum fhaska ok mannhættu, þegar þeir konúngr vóru í bardögum; varð hann af slíku viðrægr *ok* fèkk því mikla virðíng ok metnað, *see* Þorðar s. *S. 4 L. 4—10*.

úngs, ok marga aðra ágæta menn tóku þeir af lífi. Á þeirra dögum var í Noregi hallæri mikit bæði á sjó ok landi, svo margir göfgir menn þoldu eigi vanrètti ok rangindi, ok drápu bændr ríkismenn . . . . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

7. . . . ga sínum; þat annat, at ek vilda firrast vandræði við Skeggja sakir þín, fóstri minn; hitt et þriðja, at ek sèr, at Skeggi er bæði mannmargr ok þíngríkr; þat et fjórða, er fyrir bítr, at ek má eigi mönnum þeim trúa, er í Miðfirði vinir mínir látast, ok sè ek, at mèr dugir þat eigi, ef þú ert í brottu fóstri minn, ef nökkut skerst í með okkr feðr þínum, en mèr þikkir þat eigi ólíkligt sakir beggja okkar skapsmuna; hefir ek ok nökkut reynt ótrúleika þeirra við mik, sem er Börkr hinn gamli á Barkarstöðum ok Svertíngr á Svertíngsstöðum ok þeir bræðr Þórveigarsynir á Steinsstöðum, ok Grímr Skarason á Skarastöðum í Austrárdal. Nú búast þeir allir brott ór Miðfirði; reið Eyvindr með þeim; ok er þeir kómu á þá borg, er Bessaborg heitir, þá sneri Þórðr aptr, ok leit á fjörðinn ok mælti: fagr ertu þó, Miðfjörðr, þó ek verði nú við þik at skilja; man þeim nú höfðingjunum þikkja af enn ólmasti, er ek em á burtu; en þat læt ek um mælt, at þeir sem mestir menn eru í Miðfirði verði aldri samhuga, svo at árum skipti, ok þat annat, at þat haldist, sem mèr þikkir nú vera, ok hefir raun í hendi mèr um, at hèr er fólk orðslúngra, meira ok ósannorðara, en í flestum sveitum öðrum; þat et þriðja, at af takist hafskipalægi í Miðfirði. Þat mæli ek ok um, sakir þess, at mèr er vel við sveitina, at hèr sè menn gestrisnari en annarsstaðar ok búandi þó betr; þat annat, at hèr sè bóndaval betra, en víða annarsstaðar, ok komi sjaldan óár; þat et þriðja, at sá maðr, er hèr vex upp, verði hèr aldri hengdr. Síðan riðu þeir allir

norðr til Miklabæjar ok fagnar Ólöf þeim vel ok býðr þeim vel þar at vera, ok svo gerðu þeir. Þeir segja henni sín erindi; hón tók því vel, en vill þó gera þetta við ráð þeirra feðga, Kálfs ok Eyvindar. Fór nú þetta fram, at Ólöf var gefin Þórði, bjuggu þau á Miklabæ lengi síðan; en þeim bræðrum sínum, Eyjúlfi ok Steingrími, gaf hann jörðina at Ósi í Miðfirði ok búit með. Síðan fékk hann þeim sæmilig kvonföng, sem þeim sómdi, þvíat þeir vóru hinir beztu bændr; bjuggu þeir at Ósi til elli, ok er mart manna frá þeim komit, ok enn mesti ættbogi. Þeir Eiðr ok Þórðr skildu með hinni mestu vináttu, ok hèlzt þeirra vinfengi meðan þeir lifðu báðir.

8. Þat sama sumar er Þórðr reisti bú á Miklabæ í Óslandshlíð, ok hann hafði fengit Ólofar, sigldu þeir Eiðr ok Eyvindr Kálfsson; ok fóru þeir landa í milli um hríð, ok vóru með tignum mönnum, ok reyndust enir röskustu menn í öllum mannraunum. Eiðr varð ok manna vitrastr til lögmáls ok allra ráðagerða. Eyvindr var enn bezti drengr, ok kunni vel at vera með tignum mönnum, ok var áburðarmaðr mikill, ok því var hann kallaðr Eyvindr prúði; hèldu þeir Eiðr ok Eyvindr sínum fèlagsskap alla stund, meðan þeir vóru í kaupferðum. En er þeir lèttu förum fór Eyvindr norðr til Miklabæjar til móts við Þórð, mág sinn ok vin. Þau Þórðr ok Ólöf tóku við honum með enni mestu virðíngu, ok buðu honum með sèr at vera, ok þat þá Eyvindr, ok var þar um vetrinn. En um vorit spurði Þórðr hvat Eyvindr vildi ráða taka. Hann svarar: þat hefir ek helzt staðfest með mèr, at leggja af kaupferðir ok staðfesta ráð mitt, þvíat svo hefir Eiðr gert nú, fèlagi minn. Þórðr segir: skal ek hlut í eiga, sem þú vilt at snúa, ok ekki þar til spara, hvortki penninga nè mannskap; eðr hvar viltu at snúa? Eyvindr mælti: Eyjúlfr heitir maðr, er býr norðr í Ólafs-

firði, á Gunnúlfsstöðum, son Þorbjarnar þjóts ór Sogni. — Eyjúlfr vá Vègeir, föður Vèbjarnar Sygnakappa; — hann á þá konu, er Gróa heitir, dóttir Þorvarðs frá Urðum; þau eiga iiij börn; synir þeirra eru þeir Steinúlfr, Þórir ok Þorgrímr, en dóttir þeirra heitir Þórarna, kvenna bezt ment, hennar vil ek fá mèr til handa. Svá skal vera, segir Þórðr. Búast þeir heiman við xij mann, ok ríða norðr til Gunnúlfsstaða, ok verðr þeirra erindi hit bezta. Fèkk Eyvindr Þórörnu, ok fór hón heim með honum. Reistu þau bú um vorit á Óslandi, ok bjuggu þar síðan; er mart manna frá þeim komit. Eptir skilnað þeirra Eyvindar ok Eiðs, fór Eiðr suðr til Borgarfjarðar bónorðsför til Grímsgils; þar bjó sá maðr, er Grímr hèt ok átti þá dóttur, er Íngibjörg hèt; hennar fèkk Eiðr. Bræðr Íngibjargar vóru þeir Þorgils auga á Augastöðum, ok Hrani á Hranastöðum, faðir Stafngríms, er bjó á Stafngrímsstöðum; þat heitir nú á Sigmundarstöðum. Segja þat sumir menn, at Eiðr ætti aðra konur síðar. Eiðr átti mörg börn; Þorhallr hèt son hans, Eysteinn ok Illhugi. Björn var ok son hans, er þeir vógu, synir Helga frá Kroppi, Grímr ok Njáll. Njáll druknaði litlu síðarr í Hvítá, en Grímr varð sekr skógarmaðr um vígit, ok lá hann úti á fjöllum meðan hann var í sektinni. Hann var mikill maðr ok sterkr. Eiðr var þá gamlaðr mjök, ok var at þessu gerr engi reki. Í þenna tíma var í förum Þorkell Eyjúlfsson; hann var hinn frægsti maðr ok kynstórr; hann var mikill vin Snorra goða; hann var ok jafnan med Þorsteini Kuggasyni, frænda sínum, þá er hann var út hèr. Þorkell var náfrændi Eiðs. Hróðný var systir Eiðs, móðir Eyjúlfs, föður Þorkels. Menn lágu mjök á hálsi Þorkatli Eyjúlfssyni, er hann rak eigi þessa rèttar. Um vetrinn, er Þorkell bjó skip sitt, er uppi stóð í Vaðli á Barðaströnd, ferr hann suðr til Borgarfjarðar, ok

fær sèr þar hest, ok ríðr einn samt, ok lèttir eigi fyrr ferðinni, en hann kemr í Ás til Eiðs frænda síns. Eiðr tók við honum feginsamliga. Þorkell segir honum sitt erindi, at hann vill leita til hefnda við Grím, skógarmann hans. Þorkell spyrr þá Eið, ef hann vissi nökkut til hvar bæli hans væri. Eiðr svarar: ekki er ek þess fúss; þikki mèr þú of miklu til hætta, hversu ferðin tekst, at eiga við heljarmann slíkan, sem Grímr er; en ef þú vilt fara, þá farðú við svo marga menn, at þú eigir allt undir þèr. Þat þikki mèr eigi frami, segir Þorkell, at draga fjölmenni at einum manni, en þat vilda ek, at þú lèðir mèr sverðit Sköfnúng, ok vænti ek þá ek muna bera af einum einhleypíngi, þótt hann sè vel at sèr búinn. Nú muntu ráða, segir Eiðr, en eigi kemr mèr á óvart, þóat þú iðrist eitthvert sinn þessa einræðis þíns; en með því at þú þikkist þetta fyrir mínar sakir gera, þá skal eigi þess varna, er þú beiðir, þvíat ek ætla þetta sverð vera vel niðr komit þóat þú berir þat. En sú er náttúra sverðsins, at eigi skal sól skína á hjöltin, ok eigi skal því bregða, svá at konur sè hjá. Ef maðr fær sár af sverðinu, þá má þat sár eigi græða, nema lyfsteinn sá sè riðinn á, er þar fylgir. Þorkell kveðst þessa skyldu vandliga gæta, ok tekr við sverðinu. Eiðr kveðst ætla, at Grímr ætti bæli norðr á heiðum vid Fiskivötn. Síðan ríðr Þorkell norðr á heiðina, þá leið, er Eiðr hafði vísat honum. Ok er hann sótti á heiðina, sèr hann við vatn eitt mikinn skála, ok sækir hann þangat til; en er hann kemr til skálans, sèr hann hvar maðr sitr við vatnit við einn lækjarós, ok dró fiska; hann hafði feld á höfði. Þorkell stígr af baki, ok bindr hestinn undir skálanum; síðan gengr hann fram at vatninu, þar sem maðrinn sat. Grímr sá skuggann mannsins ok spratt upp skjótt — því at skuggann bar í vatnit. — Þorkell var þá kominn at honum, ok höggr til hans, ok

kemr á höndina fyrir ofan úlflið, ok var þat ekki mikit sár. Grímr rann þegar á Þorkel, ok takast þeir fangbrögðum. Þar kendi brátt aflsmunar, ok fèll Þorkell, en Grímr á hann ofan. Hverr er maðr þessi? segir Grímr. Þorkell kvað hann þat engu skipta. Grímr mælti: nú hefir öðruvíss vorðit en þú mundir ætla, þvíat nú er þitt líf í mínu valdi. Þorkell kveðst eigi mundu sèr griða biðja. Grímr segir: vaxa mín úhöpp, þó ek drepi þik, þvíat mèr lízt vel á þik ok gæfusamliga; mun þèr ok annarra forlaga auðit verða en þú látist af okkrum fundi, ok vil ek þèr líf gefa, en þú launa sem þú vilt. Standa þeir nú upp, ok ganga nú heim til skálans. Þorkell sèr, at Grím mæðir blóðrás, ok tekr steininn Sköfnúngs, ok ríðr honum í sárit, ok bindr höndina, ok tók þegar allan þrota ok sviða ór sárinu. Þar eru þeir um nóttina; en um morgininn býst Þorkell brott ok spyrr, hvort Grímr vill fara með honum. Hann kveðst þat at vísu vilja. Þorkell snýr þegar vestr ok kemr ekki á fund Eiðs; lèttir eigi fyrr, en hann kemr í Sælíngsdalstúngu. Eiðr frèttir þetta, ok þótti hafa farit at getu sinni, ok unir nú illa við, ok verðr þó svo búit at vera. Þórhallr Eiðsson átti tvo sonu, Skeggja ok Eið. Skeggi átti Guðrúnu Þorkelsdóttur, Brandssonar, Þorgrímssonar, Kjallakssonar ens gamla; þeirra börn vóru þau Úlfr ok Halldórr, Þorleikr ok Þórarna. Úlfr átti Helgu, dóttur Eyjúlfs Snorrasonar goða. Þessi vóru börn þeirra: Snorri ok Eyjúlfr, Sigurðr ok Sumarliði, Þórðr ok Einarr, Hallbera ok Kolþerna, er Loptr átti Þorgrímsson, en Hallberu átti Þormóðr Lýtíngsson; þeirra son var Lýtíngr. Eiðr Þórhallsson var faðir Þórhalls; hann átti Hallbjörgu Hafþórsdóttur. Þessi vóru börn þeirra: Steinn ok Eiðr, Þorgeirr ok Oddný; hana átti Árni, sonr Víga-Gunnars; þeirra dóttir var Geirlaug, hana átti Högni öðgi í Bæ; þeirra dóttir var Snjólaug, er

átti Þórðr prestr Böðvarsson; þeirra son var Böðvarr i Bæ, ok Þorleifr í Görðum, ok Markúss á Melum; hans son var Mela-Snorri; hann átti Helgu Ketilsdóttur prests, Þorlákssonar, Ketilssonar, Þorsteinssonar; þeirra son var Þorsteinn böllótr, er var ábóti at Helgafelli.

9. Skeggi lifði litla stund síðan eptir viðskipti þeirra Þórðar, ok var þó gamall maðr, ok þótti vera mikill höfðíngi, ok enn mesti garpr ok fullhugi. Þórðr hreða bjó á Miklabæ í Óslandshlíð til elli, ok var hinn mesti garpr, ok jafnan ófyrirleitinn, ok enn hagasti, bæði á trè ok járn; hann smíðaði skála at Hrafnagili, þann er enn stendr í dag, ok mörg stór hús önnur á Íslandi, þau er eptir eru vel standandi. Hann gipti Guðrúnu Klyppsdóttur hersis, bróðurdóttur sína, Einari Þveræíng Eyjúlfssyni, ok vóru þessi börn þeirra: Járnskeggi, Klyppr, Þorleifr ok Áslákr, Halldóra, Hallfríðr, Helga, Jórunn, Valgerðr ok Vigdís. Járnskeggi átti Jórunni, dóttur Hjalta Skeggjasonar. Halldóru Einarsdóttur átti Þórarinn sælíngr. Hallfríði Einarsdóttur átti Snorri goði; þeirra sonr var Halldórr, faðir Guðrúnar, er átti Kjartan Ásgeirsson; þeirra son var Þorvaldr, faðir Íngiríðar, er átti Guðlaugr Þórðarson, Auðunnarsonar: þeirra dóttir var Vigdís, er átti Áli Þorvarðarson af Söndum ór Dýrafirði. Þeirra son var Oddr enn auðgi, faðir herra Hrafns ok Herdísar, móður Bjarnar, föður Gizurar galla, föður Hákonar, föður Jóns. Helgu Einarsdóttur átti Ljótr, son Halls af Síðu. Þeirra dóttir var Guðrún, móðir Hallberu, móður Þorgils Oddasonar. Jórunni Einarsdóttur átti Þorkell Geitisson; þeirra dóttir var Ragneiðr, er átti Loptr Þórarinsson, Loptssonar hins gamla af Eyrum; þeirra dóttir var Þuríðr, er átti Þórðr Klængsson, Örnólfssonar, Þórólfssonar; en móðir Þórðar Klængssonar var Hallgríma Þorbjarnardóttir, Eirekssonar ór Guðdölum örðigskeggja. Margrèt var dóttir þeirra

Þuríðar ok Þórðar Klængssonar; hana átti Bárðr enn svarti ór Selárdal, faðir Sveinbjarnar, föður Hrafns, föður Steinunnar, móður Herdísar, móður Bjarnar, föður Gizurar galla, föður Hákonar, föður Jóns. Valgerði Einarsdóttur átti Grímr Oddason, Ásólfssonar; þeirra dóttir var Hallbera, móðir Markúss lögsögumanns, föður Valgerðar, er átti Þórðr Skúlason, Egilssonar, Hriflusonar, Þorsteinssonar, Egilssonar, Skalla-Grímssonar, Kveld-Úlfssonar. Böðvarr var sonr Þórðar ok Valgerðar, faðir Guðnýjar, er átti Hvamm-Sturla; þeirra son var herra Sighvatr, faðir Þórðar kakala, föður Kolbeins, föður Þórðar, föður Árna, föður Ingileifar.



# DRAUMAVITRANIR.

## I. Stjörnu-Odda Draumr.

Þórðr hèt maðr er bjó í Múla norðr í Reykjardal; þar var á vist með honum sá maðr er Oddi hèt ok var Helgason; hann var kallaðr Stjörnu-Oddi; hann var rímkænn maðr svá at engi maðr var hans maki honum samtíða á öllu Íslandi, ok at mörgu var hann annars vitr. Ekki var hann skáld nè kvæðinn. Þess er ok einkum getið um hans ráð, at þat höfðu menn fyrir satt, at hann lygi aldri, ef hann vissi satt at segja, ok at öllu var hann ráðvandr kallaðr ok trygðarmaðr hinn mesti; fèlítill var hann ok ekki mikill verkmaðr. Frá því er at segja, at um þenna mann Odda gerðist undarligr atburðr: Hann fór heiman út til Flateyjar, er Þórðr húsbóndi hans sendi hann þessa ferð á vit fiska, ok er eigi annars getið en þeim fórst vel til eyjarinnar; þar var hann í góðum beina. Ekki er frá því sagt hverr þar bjó; en frá því er at segja, at um kveldit, er menn fóru í rekkju, var vel búit um Odda ok hægliga, en við þat er Oddi var farmóðr ok veittr hógligr umbúnaðr þá sofnar hann brátt, ok dreymði hann þegar, at hann þóttist staddr vera heima í Múla, ok svá þótti honum sem þar væri kominn maðr til gistíngar, ok þótti honum sem menn færi í rekkju um kveldit; þótti honum gestrinn vera beðinn

skemtanar, en hann tók til ok sagði sögu ok hóf á þessa leið.

2. Hroðbjartr hefir konúngr heitið, hann rèð austr fyrir Gautlandi, hann var kvángaðr maðr, Hildiguðr hèt kona hans; þau áttu sèr einn son barna er Geirviðr er nefndr; hann var snemma vænn ok vitmikill, ok at öllum hlutum mannaðr um fram sína jafnaldra, enn barn var hann at aldri er sagan gerðist; Frá því er at segja, at konúngrinn Hroðbjartr hafði settan til landstjórnar yfir þriðjúng ríkis síns jarl þann, er Hjörvarðr hèt, hann var ok kvángaðr ok hèt kona hans Hjörguðr; þau áttu eina dóttur barna, sú hèt Hlèguðr; frá henni er svá sagt, at hán var ólát í æsku sinni, ok var ávalt því ódælli sem hón var eldri; þat var ok sagt, at hón vildi ekki kvenna sið fága í sínu athæfi. Þat var hennar venja jafnan, at hón gekk í herklæðum ok með vápnum, ok ef hana skildi á við menn, þá veitti hón þeim annathvárt áverka stóra eða líflát, þegar henni líkaði eigi; en við þenna hennar ójafnað þá þótti Hjörvarði jarli föður hennar eigi mega við sæma hennar vandræði, ok sagði henni þá ljósliga, at hann mundi eigi þann veg lengr láta fram fara, ok kvað henni eigi hlýða mundu nema um batnaði nokkurs háttar, eðr elligar far í brott sem skjótast ór minni hirð. En þegar Hlèguðr jarlsdóttir verðr þessa áheyrsla af feðr sinum, at hann vildi hana láta í burt fara af sinni hirð, þá svarar hón því máli svá, at hón kvað sik þar ekki dvelja, ok beiddi hón þá föður sinn, at hann skyldi fá henni langskip iij alskipuð bæði at mönnum ok herklæðum ok búa at öllu sem bezt með góðum liðskosti, svá at henni þætti vel skipuð, ok ef svá væri gert sem hón beiddi hèr um þetta mál, þá taldi hón sèr mundu vel líka þótt hón færi í braut við svá búit. Hjörvarðr jarl vildi gjarna þetta til vinna at hón kæmist á braut sem skjótast, þvíat honum þótti, sem var, mikil vandræði af standa hennar ráði; síðan

lèt hann búa at öllu iij langskip sem bezt; en þegar þetta lið var búit, þá ferr Hlèguðr jarlsdóttir ór landi með þessu liði ok lagðist síðan í hernað ok víking, ok aflaði sèr svá fjár ok frama. Svá er sagt, at hón kom eigi í land meðan faðir hennar lifði. En í annan stað er þar til at taka sögunnar, at þá er Geirviðr son Hroðbjarts konúngr var átta vetra gamall tók Hroðbjartr konúngr sótt, ok verðr þat lítil frásaga, þvíat sóttin leiðir svá til lands, at konúngrinn andast. Þat þótti öllum hans ástvinum ok virktamönnum enn mesti skaði sem var, at missa slíks höfðíngja, ok þar út í frá öllu landsfólkinu. Síðan var fengit at virðuligri veizlu ok þar til boðit öllum enum ríkustum mönnum ok enum beztum höfðíngjum er í vóru landinu, þar með var ok til boðit hverjum manni þeim, er veizluna vildi sækja bæði innan lands ok utan svá at engi skyldi þar úboðit koma; en síðan þessi veizla var saman sett með því fjölmenni er þangat sótti, þá var þar erfi drukkit eptir Hroðbjart konúng með miklum veg ok sóma, svá sem byrjaði hans tign ok sómasamligri virðíngu. En er erfinu var lokit, þá var konúngrinn heygðr at fornum sið, eptir því sem þá var tíðska til við göfga menn.

3. Nú er svá at segja, at eptir þessi miklu tíðindi er þar í landi höfðu gerzt, þá sýndist þat öllum enum vitrustum mönnum, ok enum beztum vinum konúngsins, at taka annan mann til konúngs ok landstjórnar í stað þvílíks höfðíngja, sem þá var við mist; en svá var mikil ástúð öllum landsmönnum á Hroðbjarti konúngi meðan hann lifði, at menn vildu ekki annat, en velja Geirvið son hans til konúngs ok láta eigi konúngdóminn ganga ór hans ætt, þótt Geirviðr væri úngr at aldri, eðr hann þætti þá enn lítt til landráða fallinn í þann tíma, vildi þó allt landsfólkit til þessa hætta með umsjá drotníngar móður hans, með því at

hón var en vitrasta kona ok vel at sèr i alla staði. En er svá fór fram um hríð, at svá úngr maðr skyldi höfðíngi vera ok stjórna mörgu fólki, sem Geirviðr var, þá gerðist brátt landsstjórnin lítil sem líkligt var. Þat gerðist ok, at hirðin fatkaðist, fyrir því at margir vóru þeir af hans hirðmönnum at aðra iðn lögðu fyrir sik; sumir lögðust í víkíng, aðrir rèðust í kaupferðir til ýmissa landa. Nú með því, at á þessu þótti mikit mein sem nú var frá sagt, þá gerðust þó mörg önnur óhægindi í ríki þessa hins únga konúngs. Þess er við getið í sögunni at illvirkjar ij lögðust út á skóg þann er Jöruskógr heitir; þat var í ríki þessa ens únga manns. Þessir víkíngar drápu menn til fjár sèr, ok vóru náliga berserkir. Annarr þeirra hèt Garpr en annarr Gnýr. Svá er sagt, at mönnum hlýddi aldri fám at fara saman. Jafnan vóru menn vanir at fara á skóginn með fjölmenni at leita illvirkjanna, ok ráða þá af, en þeir urðu aldrigi hittir þóat þeirra væri leita farit með fjölmenni. Slíku ferr fram til þess er Geirviðr konúngr er xij vetra, ok þá er hann var svá aldrs kominn, þá var hann svá mikill maðr vexti ok sterkr at afli, sem þeir menn margir sem fullkomnir vóru at aldri ok atgerfi náliga eptir því sem þeir bezt vóru á sik komnir fyrir allra hluta sakir. Þat var eitthvert sinn þá er Geirviðr konúngr sat yfir borðum með allri hirð sinni, þá tók hann til orða ok mælti svá: nú er svá, sem yðr er kunnigt öllum mínum mönnum, at ek hefir úngr verit hèr til at aldri, ok svá hefir ek haft litla orku, ok því hefir af mèr staðit lítil stjórn í ríkinu; hefir ek þat ok opt heyrt, sem ván er at, má þat ok eigi mjök undrast, þó at hèr til hafi af mèr lítil stjórn staðit fyrir sakir æsku minnar; en þó er ek nú svá aldrs kominn, at mèr er nú mál at reyna mik, ok vita, at nokkut vili mitt ráð þroskast ok meirr hefjast en áðr er, þar sem ek er nú vorðinn maðr xij vetra gamall; eru ok

margir ekki betr mannaðir á mínum aldri; nú vil ek ok því lýsa fyrir öllum yðr mínum þegnum ok virktavinum at ek ætla mèr at fara til móts við berserkina þá Garp ok Gný, er liggja á Jöruskógi ok gera þar mörg illvirki, ætla ek ok til þess, at koma eigi aptr svá at þeir sè á lífi, ok skal ek þá yfirkoma eðr þeir mik ella. En er Geirviðr konúngr hafði þetta mælt, þá svarar fyrst máli hans drotníngin móðir hans ok þar með allir hans beztu menn, ok mæltu náliga allir sem eins manns munni ok báðu konúng fara fjölmennan á fund stigamannaanna ok með miklum viðbúnaði ef hann vildi fara. Geirviðr konúngr svarar: hugsat hefir ek þetta mál áðr nokkut fyrir mèr en ek kvæða upp, ok sýnist mèr á þá leið sem í þessari ferð megi mèr þá engi frami kaupast þótt ek fá náð berserkjunum, enda leita ek þeirra með miklu liði alvápnuðu, en þat er þá nokkur svívirðíng ef þeir fást þá eigi ok koma ek við þat aptr, ok verðr þá ósnöfrmannliga minnar handar ef svá tekst. Nú hefir ek hina leið ætlat ferðina at fara með annan mann á þeirra fund, ok mun þá skipta gæfa með oss hverr þá skal verða várr skilnaðr; má þá ok verða ef vill, at nokkur svá fremð fylgi ferðinni; skal nú ok á þat ráð hætta, hversu sem til vill takast; er nú ok fyrir því upp borit þetta mál fyrir yðr, at ek vil nú vita hverr fúsastr er til þessarar ferðar með mèr, ok er nú þat ráð at nokkurr vakni við, sá er til vill ráðast, ok svari sá nú mínu máli, enda skulu þèr þat vita hèr með, at nú er þetta mál fullgert fyrir mína hönd, at ek mun þó fara þessa ferð þótt ek fari einn saman, ok verði engi til at fylgja mèr. En við þessi ummæli konúngs, þá er þat sagt at drotníng sjálf fyrst at upphafi latti á alla vega þessar ferðar, ok sagði, sem var, allóráðliga stofnat þar sem við heljarmenn var at eiga, er illvirkjarnir vóru, svá mikit sem þar var í ábyrgð er konúngrinn var

sjálfr, þvíat öllum þótti viss ván, at hann mundi látast fyrir þeim, ok fá minna hlut í þeirra skiptum ef svá yrði sem líkligt mundi þykkja fyrir sakir æsku konúngs þeirra en harðfengi berserkjanna. Allir vinir konúngs löttu ákafliga fararinnar, ok þótti konúngr útseldr ef hann færi við annan mann. Konúngr svarar, at ekki mundi tjóa at letja hann; ok er allir skyldu at konúngr mundi eigi letjast láta, þá verðr til, ok svarar máli konúngs sá er Dagfinnr hèt, hann var hirðmaðr konúngs ok konúngs skáld; herra, segir hann: engan mann veit ek þèr meiri sæmd eiga at launa í alla staði en mik; er ek ok því skyldari at skiljast aldri við þik, er þú ert í meira háska staddr, ef þèr vilit þiggja mitt föruneyti ok fylgð, ok er ek til þessar farar albúinn þegar þèr vilit.

4. En þegar þessi maðr Dagfinnr var nefndr í sögunni, þá er frá því at (segja,) er mjök er undarligt, at þá brá því við í drauminum Odda, at hann Oddi sjálfr þóttist vera þessi maðr Dagfinnr, en gestrinn sá er söguna sagði er nú ór sögunni ok drauminum, en þá þóttist hann sjálfr sjá ok vita allt þat er hèðan af er í drauminum. En nú síðan er drauminn svá at segja, sem honum þótti sjálfum fyrir sik bera, Odda, þá þóttist þann vera Dagfinnr ok ráðast í ferðina með konúnginum Geirviði; en er þeir vóru albúnir, þá riðu þeir ij saman með vápnum sínum til þess er þeir kvómu á Jöruskóg þangat sem illvirkjanna var ván, en þar var svá viðr vaxit, at gata var breið um skóginn, ok er þeir kómu mjök langt í skóginn þá er þess getið, at þar varð fyrir þeim hóll einn mjök hár; hann var brattr öllum megin; síðan gengu þeir upp á hólinn, ok vildu þaðan sjást um ok vita hverra tíðinda þeir mætti vissir verða; mart smágrjót var á hóli þessum; þaðan sá þeir víða. Þeir geta at líta hvar ganga ij menn; þeir vóru miklir vexti, ok gengu þegar þangat at hólinum sem þeir konúngr stóðu.

Þessir menn vóru báðir vel vápnaðir. En þegar þeir konúngr ok Dagfinnr sá þessa menn, þá þóttust þeir vita, at þar vóru þeir komnir Garpr ok Gnýr. Þá mælti Dagfinnr: herra, ek vil yðr kunnigt gera, at ek er eigi mjök vanr vápnaskipti, ok kann ek lítt at treysta hug mínum nè vápnfimi, nú vil ek at þèr kjósit um ij kosti, hvárt þèr vilit heldr at ek ráðist í mót berserkjunum með þèr, eðr viltú at ek sjá til yðvarrar sameignar af hólinum, ok kunna ek frá at segja öðrum mönnum. Konúngr svarar: ef þèr lèr nokkut tveggja huga um þetta mál þá þikki mèr einsætt, at þu sèr hèr á hólinum, ok sjáir hèðan til sameignar várrar ok komir eigi nær (við) vár vápnaskipti. Dagfinnr tekr þat ráð sem konúngr mælti, ok dvaldist eptir á hólinum, ok kemr hvergi nær, ok þikkir honum þat allráðligt, en konúngrinn sjálfr ræðst ofan af hólinum í móti stigamönnunum. Þar kann eigi glöggliga frá at segja hversu högg fóru með þeim ok mun ek þar gera skjóta frásögu þvíat þat er þar frá lyktum at segja, at svá skipti hamíngjan með þeim, þvíat konúngi varð lagit líf ok lykka, at hann bar af báðum illvirkjunum, ok lètust þeir af stórum sárum er konúngr hafði þeim veitt. Ok eptir þat er illvirkjarnir vóru fallnir þá gengu þeir konúngr ok Dagfinnr fram á götuna lengra, ok kómu þar at farandi, er stígr lítill lá af þjóðbrautinni í skóginn. Þeir höfðu litla stund gengit þann enn litla stíg, áðr brátt gerðist rjóðr mjök mikit í mörkinni ok stóð þar eitt hús, þat hús var hátt og ramgert ok ramliga læst, ok grafinn lykill í dyri-gætti. Þeir luku upp húsinu, ok gengu þar inn. Þat hús var vel innan búit ok var náliga fullt af allskyns auðæfum. Þar vóru þeir um nóttina ok skorti þar hvárki góðan drykk nè dýran mat, en um morgininn fóru þeir heimleiðis, ok huldu áðr hræ útilegumannanna. En er konúngrinn kom heim til ríkis síns, þá varð hann frægr

mjök víða um lönd af sínu þrekvirki ok ágætum sigri, ok urðu allir vinir konúngsins ok frændr honum fegnir er hann kom heim með göfugligum sigri, ok þóttust menn hann náliga ór helju heimt hafa, sem var.

5. Nú eptir þenna atburð allan saman lèt konúngr þíngs kveðja, ok kemr þar mikit fjölmenni saman; en er saman var sett þetta et fjölmenna þíng, þá sagði konúngr þar þessi miklu tíðindi, ok þótti öllum þetta en mesta frægð, sem var, er Geirviðr konúngr hafði einn sigr borit af slíkum kempum. Síðan bað Geirviðr at menn skyldi vitja til þess húss er illvirkjarnir höfðu í borit þat mikla fè ok skyldi þar hverr taka sitt fè þat er mist hafði, en allir gáfu konúngi upp sitt fè þat sem hverr átti ok sögðu þat bezt komit, at hann hefði, ok kváðu hann fullu kostað hafa. Síðan lèt konúngr sækja fèit ok kastaði á sinni eigu. Eptir þat lèt konúngr taka til húsgerðar ok gerðu menn konúngi haug þann, er hann skyldi sitja á. Þá var konúngr settr á stól þann er stóð á hauginum, ok hófu menn hann svá einkum til tignar, ok gáfu honum þá enn af nýju dýrar præsentur ok dýrkuðu hann sem þeir höfðu framast föng á. Þess er við getið þar sem Dagfinnr skáld er, honum kom í hug, at engi mundi skyldari til konúnginn at sæma meðr kvæði en svá sem hann var. Síðan gengr Dagfinnr á hauginn upp til konúngsins ok fèll á knè fyrir hann, ok laut honum, ok kvaddi hann virðuliga, ok sagði honum, at hann hefði kvæði ort um konúnginn ok bað, at hann mundi hlýða. Konúngr játti því blíðliga. Síðan tók Dagfinnr til ok flutti kvæðit, ok var þat flokkr; ok er lokit var kvæðinu, þá þakkar konúngr vel ok allir þeir, er við vóru staddir, ok sögðu vel ort, ok svá sem sæmði tign ok virðíng konúngs þeirra. Ok sem konúngr heyrði at allir lètu vel yfir ok lofuðu mjök kvæðit, þá vildi hann sèr láta ok verða stórmannliga ok launa höfðíng-

liga ok vill gefa skáldinu gullhríng mikinn er hann hafði á arminum, en Dagfinnr vildi eigi hrínginn þiggja, ok sagði svá at honum var mikil öfusa á því, at hafa sóma ok virðíng af konúnginum, en fè kvaðst hann eigi þurfa at þiggja af honum, ok kallaði sik ekki skorta meðan hann hèldi honum heilum, en þeir eru margir aðrir er þar sjá til fjárins sem þèr erut. Konúngi líkar þetta vel.

6. Þessu næst er at segja frá þeim tíðindum, at Hjörguðr kona Hjörvarðar jarls tók sótt hættliga ok þarf þar eigi at gera mikinn orðahjaldr, at þessi sótt leiðir Hjörgunni til bana. Síðan var hón erfð ok út borinn ok gert eptir hana sem tíðska var til í fornum sið eptir ríkar konur. Jarli þótti mikill skaði eptir drottníng sína sem ván var ok harmaði hana mjök ok svá margir aðrir út í frá. Eigi höfðu liðit langir tímar, áðr vinir hans fýstu at hann skyldi fá sèr annarar konu. Hann spurði hvar þeir sæi honum kvánfang þat er honum væri virðíng í at fá. Þeir töldu ráðligt at hann bæði til handa sèr Hildigunnar drotníngar, ok sögðu honum mikit uppheldi at þeim ráðahag, ef hann næðist. Ok er þetta var opt tjáð fyrir jarli, þá sýndist á þá leið, þvíat hann var vitr maðr. Síðan hefir hann upp orð sín ok biðr Hildigunnar drotníngar sèr til eigin konu; hón var þá enn ekki meir en fertug kona at aldri ok þótti kostrinn vera enn merkiligsti fyrir allra hluta sakir; ok hvárt sem um þetta var talat lengr eðr skemr, þá var þat at ráði gert, at drotníng var gipt Hjörvarði jarli með ráði konúngs sonar hennar. Síðan var fengit at virðuligri veizlu ok drukkit brúðhlaup Hjörvarðar jarls ok Hildigunnar drotníngar meðr miklum veg ok margskonar sóma; ok er veizlunni var lokit þá ferr hverr heim til sinna heimkynna. Brátt takast þar miklar ástir í millum þeirra, ok eru samfarar þeirra sæmiligar ok eigi langar áðr en þau áttu dóttur; hón var nefnd Hlað-

reið. Svá er sagt at samför þeirra jarls ok drotníngar var eigi löng þaðan í frá er þau höfðu Hlaðreiði getið, áðr þau tíðindi gerðust, at jarl tekr sótt, ok leiðir hón svá til lands, at hann andast af þeirri sótt. Þat þótti vera skaði mikill þvíat hann var virðuligr höfðíngi. Eptir þessi tíðindi setti Geirviðr konúngr sína menn yfir ríkit þat er jarl hafði átt, ok eignaði sèr. Þessi tíðindi spyrjast víða sem ván var, fráfall þvílíks höfðíngja. Þar kemr at þessi tíðindi koma fyrir Hlègunni dóttur Hjörvarðar jarls, at faðir hennar er andaðr, þar sem hón er í hernaði ok brýtr undir sik víkínga; bregðr henni svá við tíðindin, at hón snýr öllu sínu liði til Gautlands ok herjar þar; ok svá kemr því máli, at hón lagði undir sik allt þat ríki er átt hafði faðir hennar. Síðan sendir hón menn á fund Geirviðar konúngs, ok bað svá segja honum sín orð, at hannn skyldi annathvárt gera, at unna henni hálfs ríkis ok landráða við sjálfan sik, eðr ella skyldi hann búa sik ok sína menn ok (koma) til móts við hana með sinn her í sund þau er heita Síldasund, ok berjast við hana þar, ok hefði þat þeirra sigr ok gagn er meiri gæfu stýrði.

7. Nú er þar til at taka, at sendimenn fóru, þeir er Hlèguðr sendi; þat vóru skjaldmeyjar. Þær fóru á konúngs fund ok báru upp sín erindi fyrir konúnginn. Ok er hann heyrði kostaboð Hlègunnar, þá svarar hann skjótt á þessa leið: því skjótara skal kjósa sem kostir eru ójafnari, ok vil ek miklu heldr berjast við hana en láta ríki mitt fyrir ágangi hennar. Sendimenn fóru aptr á fund Hlègunnar ok segja henni til svá búins, ok líkaði henni þeirra för forkunnliga vel. Nú er þat at segja, at Geirviðr konúngr safnar herliði um allt sitt ríki ok skal hverr maðr fara í þessa herför, er skildi má valda eðr skapti skjóta. Þess er við at geta, at höfði sá gekk einummegin hjá sundunum, er Hofshöfði heitir, ok

skyldi þar hittast lið konúngsins allt við höfðann. En er Geirviðr konúngr var albúinn, þá leiddi hann alþýða til skips. Þar var í ferð með konúngi Dagfinnr skáld. En í ofangöngunni til skipanna, þá varð sá atburðr, er geta verðr, þó at lítils vægis þikki vera, at losnaði skóþvengr Dagfinns skálds; ok síðan bindr hann þvenginn, ok þá vaknaði hann, ok var þá Oddi sem ván var, en eigi Dagfinnr. Eptir þenna fyrirburð gekk Oddi út, ok hugði at stjörnum sem hann átti venju til jafnan, er hann sá út um nætr þá er sjá mátti stjörnur; þá mintist (hann) á drauminn ok mundi allan nema kvæðit þat er hann þóttist ort hafa í drauminum, nema þessar vísur sem hèr eru ritnar:

Vóru austr á Jöruskógi
barmar tveir böls um fyldir,
ok til fjár fyrðar næmdu
við morðráð mörgu sinni.

En sá gramr er gera bræðir
hefir tírgjarn tindótt hjarta,
ok böðfrækn báða feldi
Garp ok Gný Geirviðr konúngr.

Rèð jafngjarn auði at skipta,
Roðbjartssonr rekka mærði
af því fè fyrða kindir
er svikmenni safnat höfðu.

Lèt gunndjarfr gefna hrínga
seggja ætt siklíngr Gauta,
svá at hirðmenn höfðu allir
haukastóls hengiskafla.

Mun Dagfinnr dýrra mála
við lofsorð lúka kvæði;
njóti vel vegs ok landa
gramr göfugr gauzkrar þjóðar.

8. En sem Oddi hafði úti verit slíka stund sem honum vel líkaði, fór hann inn í rekkju sína ok sofnaði þegar, ok dreymdi hann þat sem hit fyrra sinn ok hann hafði vaknat frá; þóttist hann þá hafa bundit skóþvenginn ok vera Dagfinnr, ok skynda til skipanna. Svá þótti honum í drauminum sem hann skyldi vera skipstjórnarmaðr; ok þegar þeir vóru búnir til ferðar, fóru þeir með skipaflotann til þess er þeir kómu við höfðann, ok hittist þar allt lið konúngs, ok lögðu síðan fram í sundin Síldasund. Þá er ok sagt at þar var komin Hlèguðr skjaldmær ok lá þar fyrir í sundunum með skipaflota sinn ok hafði ógrynni liðs ok albúin til orrustu. Síðan lögðu hvárir í mót öðrum, ok laust saman með þeim snarpri sókn, ok var þar enn harðasti bardagi, ok rèðst brátt mikit mannfall í hvártveggja liði, en þó hafði eigi lengi staðit bardaginn áðr en mannfallit hneig í lið konúngs, ok hruðust hans skip mjök. Þess er ok getið, at Hlèguðr varð ekki sèn í orrustunni um daginn, ok hugðu menn þó drjúgt at af konúngsmönnum, ok þótti þat undarligt. En er slíku hafði fram farit langa hríð um daginn þá leitaðist Dagfinnr um með sinni list, ok sá hann þá Hlègunni, ok var þá komin á konúngsskipit, ok var þá vorðin skipan mikil á hennar hag; honum sýndist á henni ylgjarhöfuð geysimikit ok tröllsligt, ok biti með því höfuðin af konúngsmönnum. En er Dagfinnr sá þessi undr, þá steig hann af því skipi, en hann stýrði; þat lá fjarri konúngs skipinu. Síðan hljóp hann hvert af öðru unz hann kom á konúngs skipit, en þegar hann kom á fund konúngs þá sagði

Dagfinnr hvat títt var, ok hvat stór endemi vóru við. Síðan vísaði Dagfinnr konúngi til hvar Hlèguðr var, at hann mætti sjá hana, en konúngr fèkk hana eigi sèt sakir fjölkýngi hennar, en hitt sá hann, at menn hans fèllu tugum saman. Þá bað Dagfinnr konúnginn sjá undir hönd sèr ena vinstri, ok svá gerði hann. En er konúngr fór svá með, þá sá hann Hlègunni. Síðan gengu þeir báðir saman aptan til siglu. Þá hljóp konúngrinn fram með brugðnu sverði, ok þegar hann kemr í höggfæri við Hlègunni, þá höggr hann til hennar með sverðinu ok kemr höggit á hálsinn ok hjó hann af henni höfuðit ok fèll þat útbyrðis. En er hón var fallin, þá bauð konúngrinn kost þeim mönnum er fylgt höfðu Hlègunni, hvárt þeir vildi heldr halda bardaga upp við hann eðr ganga honum til handa; en þeir kjöru skjótt at ganga á konúngs vald. Ok síðan er Geirviðr konúngr lagði á braut ór þeim bardaga, þá lagði hann undir sik allt landit, ok setr þar yfir sýslumenn ok friðaði svá allt ríkit. Síðan hèlt konúngr heim, ok var ger í mót honum dýrðlig veizla. Eptir þat var kvatt þíngs, ok var þat þíng allfjölmennt; var konúngrinn Geirviðr settr þá enn á stól af nýju, ok hafiðr upp á enn sama haug sem fyrr, ok nú til konúngs tekinn ok ríkisstjórnar yfir allt Gautland; gekk þá annarr höfðíngi at öðrum upp á hauginn ok gerði til konúngsins veg ok sóma, hverr eptir slíku sem framast hafði föng ok færi á. Dagfinni skáldi kom þat í hug, at engi átti konúnginum meiri virðíng at launa í alla staði en hann; gekk hann síðan upp á hauginn ok kvaddi konúnginn vel ok hæverskliga. Konúngr tók glaðliga kveðju hans. Dagfinnr sagði konúnginum deili á því, at hann hafði þá enn ort kvæði um hann af nýju, ok bað, at hann skyldi hlýða, ok kvaðst þá vilja færa kvæðit. Konúngrinn svarar, at hann kvaðst gjarna hlýða vilja. Tók þá Dagfinnr ok flutti kvæðit, ok var þat þrítug drápa er hann þóttist

ort hafa. En er kvæðinu var lokit, þá þakkaði konúngr þat allvel ok dró digran gullhríng af hendi sèr ok gaf Dagfinni at skáldskaparlaunum, en Dagfinnr vildi eigi þiggja hríng-inn, ok sagðist allt ærit hafa meðan hann hèldi konúnginum heilum, en Geirviðr konúngr lèt þat þá í ljós við Dagfinn, at hann skyldi hans sóma meira gera í alla staði heldr en hvers manns annars í sínu ríki, ok bauð honum þat, at hann mundi afla honum kvánfangs, ok sagði svá, at hann mundi þá konu fá honum til handa, er hann vildi helzt kjósa náliga, þess er kostr var í því landi. Dagfinnr tók þessu máli vel sem ván var, er konúngrinn vildi svá mikinn gera hans sóma, ok svarar: ef þetta skal allt efna af yðvarri hendi við mik sem nú er um mælt, þá er ekki því at leyna, at er sá kostrinn, at gjarna munda ek mèr unna, ok þú átt ok mest undir sjálfum þèr. Konúngr mælti: hver er sú kona, er þú talar til? Dagfinnr svarar: þat er Hlaðreið systir þín, hón er sv[á] kvenna, at mèr er mestr hugr á at fá, ella hygg ek at fyrir muni farast um kvánföngin. Konúngr sagði at þat skyldi ok eigi undan draga við Dagfinn, er honum þótti sinn sómi vaxa við. Hlaðreið konúngssystir var þá gjafvaxta ok þó úng mjök at aldri, en kvenna var hón fegrst ok fríðust, ok bezt at sèr ger um alla hluti. En hvárt sem þetta mál var talat lengr eðr skemr, þá ræðst þat af, at Hlaðreið var föstnuð Dagfinni skáldi; síðan var þar fengit at boði, ok var þar ger en vegligasta veizla í alla staði með hinum beztum tilföngum, þvíat ekki vantaði il þat er hafa þurfti Þar var ok allt et bezta mannval þat er í var landinu; var nú drukkit brúðhlaup þeirra með inni mestu sæmd ok prýði. En er veizluna þraut, þá fór hverr til sinna heimkynna er þangat hafði sótt. En með þeim Dagfinni ok Hlaðreiði tókust brátt miklar ástir, ok var þeirra samför einkar góð. En er svá kurteisliga var komit ráðahag Dagfinns, sem nú er frá sagt,

þá var lokit drauminum ok vaknaði hann þá, er Oddi var raunar.

9. Síðan hugði Oddi at um draum sinn, ok mundi gersamliga drauminn allan bæði hinn fyrra ok svá hinn síðara, ok mintist síðan á drápuna þá er hann þóttist síðarr kveðit hafa, ok mundi hann eigi fleira í kvæðinu heldr en þessar xj vísur sem nú eru hèr ritnar ok þetta er upphaf at:

Geirviðr of nam greiða[1]
gangs svá at skreið ór þangi,
ok byrsóta beitti
barð út um lágarða,
ok seglhættu[2] sóttu
snarpir meðr ór veðri
unns við hún und höfða
harðan vegg of seggjum.

Skeið náði þá skríða
skjót um bylgjur ljótar,
fóru dyggir drengir
á dýrmörum hlýra;
þar sá ek frægra fyrða
för prúðligsta gjörva,
þó er gotneskra gumna
Geirviðr konúngr þeira

Sigldum Hofs- fyrir -höfða
-herðendr! skipaferðum
göndul- grams með landi,
gott ráð var þat dróttar:
unz í Síldasundi
sigrgöfgaðir vigrum
hjuggu horskir seggir
hjörs andskota börva.

1) griðar Hd. 2) seglþættir Hd.

Ok skjaldmeyja skjóma
skerðendr ok sjá[1] gerðu,
at varfærir vèar
í vág fyrir lágu;
gátu ljónar líta
leiðangrs flota breiðan,
hilmis fór[2] und hjálmi
hirð sú er vörn of firðist.

Brátt vöknuðu virðar
at vígboði þjóðar
þá er Hlègunnar hestar
hafrastar mjök þustu,
ok snarráðir sóttu
siklíngs vinir þíngat.
Þó er gotneskra gumna
Geirviðr konúngr þeira.

Ok hnigsólar Högna
hríð æxti þá síðan
blóðísúnga beiðir
bragna konr af magni,
en vígroða[3] víða
varp af rómu snarpri,
sjár varð dökkr af dreyra,
drótt þá er hríðmál sótti.

Svipan gerðist þar sverða,
saman kómu þar rómu,
göndul[4] varð fyrir grundu,
grams drótt þvíat vel sótti;

1) svá Hd. 2) faur Hd. 3) vígreiða Hd. 4) göndull Hd.

Geirviðr of vá geiri
geirvaldr í klökk þeirri,
blóðár sá ek[1] í blóði,
blóð stökk um skör þjóða.

Gerði hríð af hörðu[2]
hirð sú er fylkir stýrði,
margr er gjarn[3] af gengi
göfugtiginna jöfra;
spyrkat ek frægra fyrða
ferð snjallari verða;
þó er gotneskra gumna
Geirviðr konúngr þeira.

Hlègunnar leit ek híngat
harðráðar ódáðir,
yfð með ylgjar höfði
eiskranlig sá ek geisa;
trölls kjapta sá ek tyggja
tönnum hold af mönnum,
með hnitgeirum hvápta
harða sókn of gerði.

Annat stè ek of öðru
Ata skíð[4] um víði
unz glæsimar gylfa
gekk með hilmis rekkum,
ok ek siklíngi sagðak
sýslu ægis geisla
hve grimmhuguð gerði
gerðr of vígaferði[r].

1) er Hd. 2) gerðist hríð af hörðum Hd. 3) *gram* Hd. 4) skíðs Hd.

Gramr leit hitt hvat hafði
börn hvergýmis stjörnu
höfuð á hauka stofni
heiðíngja sèr brúðar;
ósynju lèt elda
ósvífr konúngr hníga
flóðs af fyllar meiði
frægr hinn er er ekki vægði.

Nú er draum þessum lokit er Stjörnu-Odda dreymdi eptir því sem hann sjálfr hefir sagt, ok má víst undarligr ok fáheyrðr þikkja þessi fyrirburðr, en þó þikkir flestum líkligt at hann muni þat eina sagt hafa, er honum hafi svá þótt verða í drauminum, þvíat Oddi var reiknaðr bæði fróðr ok sannsögull; má ok ekki undrast þótt kveðskaprinn sè stirðr, þvíat í svefni var kveðit.

## II. Bergbúa þáttr.

Fjörðr sá[1] gengr af Kollafirði er heitir Djúpafjörðr; Þórðr hèt maðr er bjó í þeim firði fyrir vestan Hallsteinsnes, er kent er við þann Hallstein er þrælana átti þá er kallaðir vóru Hallsteinsþrælar. Þórðr var þá á góðum aldri ok hafði vel fè. Þat bar til einn vetr, er hann vildi fara til tíða fyrir einhvern hátíðardag; hann kvaddi til ferðar með sèr húskarl sinn. Til tíða var langt at fara svo at þat var mikill hluti dagleiðar, ok fóru þeir snemma. Þeir fóru þar til er á leið daginn, þá gerði á drífu mikla. Þórðr sagði at þeir fóru rangt ok kvaðst eigi vilja ganga í myrkri en kvað þá skamt af veginum enn farit hafa, þikki mèr hættligt í náttmyrkri at vèr gangim fyrir hamra ofan. Þeir leituðu

1) *er tf.* Hd.

sèr þá skjóls ok gengu undir hamar einn brattan þann er engi var snjór undir; þeir hittu þar loksins hellimunna þann er Þórðr vissi eigi von til; þar reist Þórðr krossmark með broddum stæltum, er hann hafði í hendi, í hellisdyrunum, síðan gengu þeir þar inn ok settust niðr á steina ij hjá hellisdyrum þvíat þeir vildu eigi innarr lengra. En á fyrsta þriðjúngi nætr þá höfðu þeir heyrt at nokkut fór innar eptir hellinum ok útar at þeim; húskarl Þórðar hræddist ok hljóp út, en Þórðr bað hann sitja kyrran, ok skaltú biðjast fyrir, þvíat þat er hætt við villu, ok kann þat verða ef menn hlaupa út um nætr, at þá sýnist annan veg en er. Þá [*sign*]du þeir sik ok báðu guð miskunnar sèr, þvíat þeim þótti l[*æti*] mikilfenglig innar í hellinum ok varð þeim litið inn í myrkrit. Þeir sá þá þat er þeim þótti þvílíkast sem túngl ij full eðr törgur stórar ok var á millum a*rn* . . sn ein mikil. Ekki annat heldr ætluðu þeir en þat væri augu ij ok mundi sá ekki mjóleitr er þau skriðljós bar; því næst heyrðu þeir kveðandi harðla ógurliga með mikilli raust, var þar hafit upp kvæði ok kveðinn xij vísna flokkr, ok kvað sá ávalt tysvar niðrlagit:

Hrynr af heiða fenri
höll, taka björg at falla,
f*ás*t munat fornu setri
friðr, alldjötuns[1] hr[íðar];
gnýr þá er gengr enn hári
gramr um dökkva hamra;
hátt stígr höllum fæti
Hallmundr í gný fjalla,
Hallmundr í gný fjalla.

Hrýtr áðr hauga brjóti
harðvirkr megingarða,

1) alld jötun Hd.

gn*ý*r er of seima særi
sáman, eldrinn kámi;
eimyrju læt*r* áma
upp skjótliga hrjóta;
verðr um Hrúngnis hurðir
hljóðsamt við fok glóða,
hljóðsamt við fok glóða.

Laugast lyptidraugar
liðbáls at[1] þat síðan,
vötn koma heldr um hölda
heit, í foldar sveita,
þat sprettr upp und epla
örþjóð vitu jóða;
hyrr munat hö*ld*um særi
heitr þar er fyrða teitir,
heitr þar er fyrða teitir

Srínga björg ok -búngur,
berg-[2] vinnast þá, stinnar,
stó*r* ok hörga hrærir
hjaldrborg, fírar margir,
þytr er u*m* þundar glitni,
þramma ek á fyrir skömmu,
en magna þys þegnar
þeir hvívetna fleiri,
þeir hvívetna fleiri.

Þýtr í þúngu grjóti,
þrír eskimars[3] svíra

1) á Hd. 2) biorg Hd. 3) eskvinar? Hd.

undr *líta* þar ýtar
enn er jöklar brenna;
þó mun stórum mun meira,
morðlundr, á Snjógrundu
undr þat er enn[1] mun standa
annat fyrr um kannast,
annat fyrr um kannast.

Spretta kámir klettar
knýr víðis böl hlíðir[2],
aur[3] *tekr* upp at færast
undarligr or grundu;
hörgs munu höldar margir,
himin rifnar þá, lifna;
rignir mest, at regn*i*
rökk[r] áðr heimrinn slökkvir[4],
rökk[r] áðr heimrinn slökkvir[5].

Stíg ek fjall af fjalli,
fer ek opt litum þopta,
*æ*st fer ek norðr it nyrðra
niðr í heiminn þriðja;
*sk*egg beri opt sá er uggir
ámr við minni kvámu,
brýt ek við bjarga gæti
bág í Elivága,
bág í Elivága.

*Várum* húms í heimi
hugði ek því svá er dugði,
vær *nut*um verka þeirra,

1) æn Hd. 2) Gjætn.; hríðir Hd. 3) 560; or Hd. 4—5) sökkvist?

valdbjúgr[1] saman allir[2]
undr er hví *örva*[3] mundi;
eiðr . . yðra mèr heita
þó ef ek þangat kæmi
þrekrams við hlyn glamma,
þrekrams við hlyn glamma,

. . . mèr frá morði
mun ván ara kvánar
handan hrímnis *kin*dar
hárskeggjaðir váru,
en ek steinhnökkva sty*rk*van
stafns plóglimum grafnar
járni fáðan aurni
auðkendan rèð ek senda,
auðkendan rèð ek senda.

Sterks kveða illt at einu
oss við þann at senna,
Þórr veldr flotna fári,
feldr er sá er jöklum eldir;
þverðir áttboga[4] urðar,
ek ferr gneppr af nökkvi
niðr til *Surts* ins svarta,
sveit, í eldinn heita,
sveit, í eldinn heita.

*Ve*ð ek sem mjöll í milli,
mart er einmyrkligt, heima,
spríngr *jörð* en þangat
Þór einn kveð ek svá fóru;

1) vallbjúgr, 560. 2) vallbjúgr, 560. 3) *saal.* 560. 4) áttbogi Hd.

breitt er und brún at líta
bjargálfa mèr sjálfum,
heldr *sk*ek ek hvarma skjöldu
harmstríð, er ek ferr víða,
harmstríð, er ek ferr víða.

*Ein*n á ek hús í hrauni,
heim sóttu mik beimar,
fimr *var* ek fyrðum gamna
fyrr aldregi, sjaldan;
flokk nemi *it* eðr ykkað,
elherðar! mun verða,
enn er at aurnis brunni
ónýt, mikit víti,
ónýt, mikit víti.

Þessi tíðindi bar fyrir þá iij sinnum, ok þetta var kveðit á hverjum þriðjúngi nætr, ok sá þeir ávalt túnglin meðan kveðit var en ella eigi. En þá er kvæðinu var lokit et iij. sinn þá leið frá þeim innar í hellinn allt saman enda sá þeir þá lýsa af degi ok hvötuðu þeir þá út ór hellinum. En áðr þeir gengi á brott brá Þórðr fæti sínum á krossmarkit er hann hafði í hellisdyrum gert; síðan fóru þeir ok kvómu til kirkju ok var þá lokit tíðum, síðan fóru þeir heim ok kvómu þar til[1] er þeir þóttust verit hafa um nóttina, ok fundu engan þá hellinn. Ok þótti þat undr mikil. Síðan gengu þeir heim. Þórðr mundi flokk þenna allan en húskarl mundi ekki orð í; *en* ári síðar eptir þetta þá færði Þórðr bygð sína nær kirkju,en at jamlengd þessa atburðar önnur misseri þá andaðist húskarl förunautr Þórðar, en hann lifði lengi síðan ok urðu honum engir hlutir kynligar en áðr, en þó eru slíkt fáheyrðir hlutir.

1) er þeir kvomu, *tf* Hd.

# III. Kumlbúa þáttr.

Þorsteinn Þorvarðsson mágr Þorfinns á Bakka er átti Helgu Þorgeirsdóttur systur ábóta; hann[1] fifldist at Steinvöru konu Höskulls mágsefnis, hann átti við henni eitt barn. En þá er Þorsteinn var í órum þessum þá var þat eitt sinn at hann gekk heim síð um aptan, ok bar þá fyrir hann sýn kynliga. Þá gekk hann í dalverpi lítið ok fann þar kuml manns. Þar þreifaði hann niðr fyrir fætr sèr ok fann þar mannsbein ok sverð eitt. Þorsteinn tók sverðit ok hafði með sèr ok ætlaði at koma þar til um morgininn eptir náttsaung. Um kveldit fór Þorsteinn í rekkju sína ok kona hans hjá honum; hann sofnaði brátt. Þá dreymði hann at maðr mikill kæmi at honum ok hafði í hendi bolöxi mikla rekna, maðrinn var vænn sýnum. Þessi maðr heitaðist mjök við Þorstein, ef hann bæri eigi aptr sverð hans ok kvað eigi mundu hlýða svá búit. Þorsteinn óttaðist heldr hót hans ok lèt illa í svefni. Kona hans vakti hann ok spurði hví hann lèt svá illa en hann vildi eigi segja henni, ok sofnaði þegar ok kom at honum hinn sami maðr ok kvað vísu þessa:

Branda rauð ek í blóði
borðhrjóts[2] með hlyn forðum,
reynda ek hvatt í hrotta
hreggi skilfíngs eggjar;
fèllu menn, en manna
morð vóx af því forðum;
enn em ek samr at semja
sama leik við þik, nafni.

1) en Hd. 2) borðspjóts AM.

Þá svarar Þorsteinn draummanninum með þessi vísu ok kvað:

Þora mun ek reiðr at rjóða
randa skóð í blóði,
hvargi er rekks með rekkum
ríðr flugdreki slíðra;
en áðr [gef ek örn fæðu[1]
undgjóðs sendir[2] blóði.
fyrr skal ek högg við höggi,
hjaldrstærir, þèr gjalda.

Þá svarar kumlbúinn ok mælti: nú hafðir þú þat ráð, Þorsteinn, er helzt lá til, ok mundi eigi hlýtt hafa ella. Þá [spurði Helga[3] hví hann lèti svá illa, en hann vildi eigi segja henni. Þá tók at lýsa brátt. Síðan reis Þorsteinn upp ok gekk þangat er hann hugði at kumlit væri, ok fann hvergi síðan, ok gekk opt at leita; fór heim síðan ok sagði konu sinni frá ok öðrum mönnum. En þetta varð vestr í Breiðafirði á Reykjanesi inn frá Stað á Hamarlandi.

## IV. Draumr Þorsteins Síðu-Hallssonar.

Draum þenna dreymdi Þorstein son Halls á Síðu austr at Svínafelli áðr hann væri þar veginn; konur iij kómu at honum ok mæltu við hann: vaki þú, Þorsteinn, sögðu þær, Gilli þræll þinn vill svíkja þik fyrir þat er þú lèzt gelda hann, ok er þetta eigi lygi; láttu drepa hann, sögðu þær. Þá kvað ein þeirra, sú er fyrst gèkk, vísu þessa ok var harmþrúngin:

---

1) [er ek à oru AM.
2) *saal.* Hd. setið AM.
3) [þá vakti Hd. ok sp. AM.

Allskörpu hefir orpit
æfinhildr med læfi
fyrir herðundum hurðar
heinar ægisbeini:
gumnum stendr fyrir gamni
gerðr með brugðnu sverði.
Vill ei enn með öllu
eykvæn Hèðins þeyjar,
eykvæn Hèðins þeyjar

. . . . Þá vaknaði Þorsteinn ok lèt leita þrælsins ok fanst hann eigi. Þá sofnaði Þorsteinn aðra nótt: þá kómu draumkonurnar með hina sömu sögu, ok gekk sú fyrst er áðr var í miðju, ok kvað sú þetta er fyrst gekk:

Fram gekk dóms at dómi
dómspakr hinn er lög rakti,
unni guð þess er inni
óþekk skyli slekkja;
áðr febríngin fengi
fangsæl Dvalins banga
baldr sá er blóðs of eldi
biðkvæn und lok riðnar,
biðkvæn und lok riðnar

æfi þinnar, Þorsteinn! Þorsteinn vaknaði, ok var leitað þrælsins ok fanst hann eigi. Enu sömu tiðindi gerðust ena þriðju nótt, at þær kvómu enn ok vóru þá grátandi allar; gekk sú þá fyrst er áðr hafði síðast gengit. Sú mælti þá: hvert skulum vèr þá hverfa eptir þinn dag, Þorsteinn? sagði hón. Hann svarar: til Magnúss sonar míns, sagði hann. Litla stund munu vèr þar mega vera, sagði hón ok kvað þá vísu:

Flugvörna sitr fjörnis
fákund megin-unda

hvöss yfir höggnum vísa
hjálma guðr at jálmi:
þess er endr fyrir enda
andþíngs um sjót banda,
þat mun ógurligt, ægis
óx ský máni tóku,
óx ský máni tóku

lífit frá þèr, Þorsteinn! Eptir þetta lèt Þorsteinn ok Yngvildr kona hans leita Gilla, en hann hittist eigi. Þá gerði á veðr illt ok vildi bóndi eigi at þau færi á brott er veðrit var svá illt. En ena næstu nótt eptir gekk Gilli þræll inn um leynidyrr er menn svófu, ok brá saxi, en Þorsteinn hvíldi svá at hann lagði hönd sína í höfuð sèr. Gilli brá saxinu á barka Þorsteini, en hann spratt upp við ok brá sverði, ok fèll þegar á bak aptr ok var þá dauðr, en þrællinn hljóp utar í eldhúsit, ok varðist þar or horni einu, þvíat heimamenn Þorsteins sóttu eptir honum. Síðan báru þeir föt á vápn hans, þá kastaði hann saxinu ok mælti: at lokum er nú komit æfi minnar. Þá mælti Yngvildr: hverr rèð þèr þetta et illa verk at gera? Hann svarar: einkis manns ráð eru þetta annars en mín. Þá var sett á kvið Gilla glóandi munnlaug. Þá mælti Gilli: kvelit mik ekki lengr, ella mun ek mæla þat orð, Yngvildr, at uppi mun vera alla æfi í knèrunni yðrum, ok mun á hrína. þá spyrndi Yngvildr á munnlaugina, en kviðrinn Gilla sprakk af bruna. Síðan var hann færðr niðr um garð ok sökt í fen eitt, ok sèr þess enn merki. Gilli þessi var son Jathguðs, Gillasonar, Bjaðachssonar, Kjarfalssonar konungs af Írlandi ens gamla, er þar ríkti lengi.

# Völsa þáttr.

Eptir því sem í einu fornu kvæði vísar til, bygði á einu andnesi norðarliga í Noregi, þar sem góð langskipa höfn var undir fjarri meginbygðum ok svo þjóðleið, bóndi ok húsfreyja nokkut öldruð. Þau áttu ij börn, son ok dóttur, at því sem í upphafi kvæðisins segir ok svo hefr;

Karl hefir búit ok kona öldruð
á andnesi einhverju,
átti son við seima bil
drengr ok dóttur
drjúgskýrliga.

Þar var ok þræll ok ambátt; bóndi var spakr maðr ok óhlutdeilinn, en kerlíng var svarkr mikill ok rèð mjök fyrir hýbýlaháttum dagliga. Bóndason var kátr ok gleðifullr glenzugr ok uppvöðslumikill; bóndadóttir var ellri, næm ok náttúruvitr, þóat hón hefði eigi við fjölmenni upp vaxit. Bóndi átti etjutík stóra er Lærir hèt. Öngvar skynjar höfðu þau á heilagri trú. Svo bar til á einu áliðnu hausti, at eykhestr karls dó, var hann mjök feitr, ok með því at heiðnir menn höfðu hrossakjöt sèr til fæðu, var hestrinn til ger ok nýttr; ok í fyrstu er fleginn var, rak þræll af honum í einu þann lim sem eptir skapan náttúrunnar hafa þess kyns kvikendi til getnaðar sem önnur dýr þau sem aukast sín á milli, ok eptir því sem fornskáldin vísa til heitir víngull á hestum, ok svo sem þrællinn hefir hann af skorit ok ætlar niðr at kasta á völlinn hjá sèr, hleypr bóndason til hlæjandi ok grípr við ok gengr inn í stofu, þar var fyrir móðir hans, dóttir hennar ok ambátt; hann hristir at þeim víngulinn með mörgum kalsyrðum ok kvað vísu;

Hèr megit sjá heldr röskligan
víngul skorinn af viggs föður

þèr er ambátt þessi Volsi
allódaufligr innan læra.

Ambátt skellir upp ok hlær, en bóndadóttir bað hann út bera andstygð þessa. Kerlíng stendr upp ok gengr at öðru megin ok grípr af honum, ok segir, at hvorki þetta nè annat skulu þau ónýta þat sem til gagns má verða; gengr fram síðan ok þurkar hann sem vandligast ok vefr innan í einum líndúki ok berr hjá lauka ok önnur grös svo at þar fyrir mætti hann eigi rotna og leggr niðr í kistu sína; líðr nú svo á haustið at kerlíng tekr hann upp hvert kveld með einhverjum formála honum til dýrkanar; ok þar kemr, at hon vendir þangat til öllum sínum átrúnaði ok heldr hann fyrir guð sinn, leiðandi í sömu villu með sèr bónda sinn ok börn ok allt sitt hyski, ok með fjandans krapti vex hann svo ok styrknar at hann má standa hjá húsfreyju ef hon vill; ok at svo gerfu tekr kerlíng þann sið, at hon berr hann í stofu hvert kveld ok kveðr yfir honum vísu fyrst manna, fær síðan bónda ok svo hverr frá öðrum þar til sem kemr at lokum til ambáttar, ok skyldi hverr maðr kveða yfir honum vísu; fanst þat á hvers þeirra ummælum, hversu hverju þeirra um gefit.

Þat hafði verit einhverju sinni, áðr en Ólafr konúngr varð landflótta fyrir Knúti konúngi, at hann hèlt skipum sínum norðr með landi; hann hafði frètt af þessu andnesi, ok þeirri ótrú er þar fór fram; ok með því at hann vildi þar sem annarsstaðar fólkinu snúa til rèttrar trúar, segir hann fyrir leiðsögumanninum, at hann skal af víkja leiðinni ok til þeirrar hafnar, er liggr undir fyrgreindu andnesi þvíat byrr var hægr; koma þeir sið dags í þessa höfn; lætr konúngr tjalda yfir skipum, en segir at þeir skulu á skipum liggja um nóttina, en hann vill ganga heim til bæjar ok biðr fara með sèr Finn Árnason ok Þormóð Kolbrúnarskáld. Þeir taka

sèr allir grákufla ok steypa utan yfir klæði sín ok ganga svo heim til bæjar um kveldit í húmi; víkja af til stofu ok setjast á bekk annan, ok skipa svo sessum, at Finnr sitr innstr, þá Þormóðr, en konúngr yztr; bíða þar til þess er myrkt er orðit, svo at engi maðr kemr í stofu, ok eptir kemr innar kona með ljósi ok var þat bóndadóttir; hon heilsar mönnum ok spyrr þá at nafni, en þeir nefndust allir Grímar. Hon gerir þá upp ljós í stofunni; hon sèr jafnan til gestanna ok lengst horfir hon á þann er yztr sitr, ok svo sem hon býst fram at ganga verðr henni ljóð á munni, ok mælti svo:

Ek sè gull á gestum
ok guðvefjar skikkjur,
mèr fellr hugr til hrínga,
heldr vil ek bíng en línga[1]
kenni ek þik, konúngr minn,
kominn ertú, Ólafr.

Þá svarar hann tilkvómumaðr sá er yztr sat: látt þú kyrt yfir því, þú ert kona hyggin. Ekki skiptust þau fleirum orðum við. Gekk bóndadóttir fram, ok litlu seinna kemr inn bóndi ok son hans ok þræll; sezt bóndi í hægsæti(!), sonr hanns upp hjá honum, en þræll yfir lengra frá honum; eru þeir kátir við gestina af kyrt þeirri; síðan er snúit hýbýlum á leið ok tekit borð ok settr matr fram. Bóndadóttir settist upp hjá bróður sínum en ambátt hjá þræli. Grímar sitja allir samt sem fyr var sagt. Síðast kemr innar kerlíng ok berr Volsa í fangi sèr ok gengr at hægsætinu fyrir bónda. Ekki er þess getið at hon kveddi gestina. Hon rekr af dúkana af Völsa ok setr á knè bónda ok kvað vísu:

Aukinn ertu, Volsi, ok upp um tekinn,
líni gæddr en laukum studdr;

1) *eller* bíug en línga.

Þiggi Mörnir þetta blæti,
en þú bóndi sjálfr, ber þú at þèr Volsa.

Bóndi lèt sèr fátt um finnast, tók þó við ok kvað vísu:

Mundi eigi ef ek um rèða
blæti þetta borit í aptan.
Þiggi Mörnir þetta blæti,
en þú, son bónda, sè þú við Volsa.

Bóndason greip við honum ok yppir Volsa ok vindr at systur sinni ok kvað vísu:

Beri þèr beytil fyrir brúðkonur,
þær skulu víngul væta í aptan.
Þiggi Mörnir þetta blæti
en þú, dóttir bónda, drag þú at þèr Volsa.

Hon gerir sèr heldr fátt um en varð þó at fylgja hýbýlaháttum, tók heldr tæpt á honum ok kvað þó vísu:

Þess sver ek við Gefjon ok við guðin önnur
at ek nauðig tek við nosa rauðum.
Þiggi Mörnir þetta blæti,
en þræll hjóna, þríf þú við Volsa.

Þrællinn tekr við ok kvað:

Hleifr væri mèr hálfu sæmri
þykkr ok ökkvinn ok þó víðr
en Völsi þessi á verkdögum.
Þiggi Mörnir þetta blæti,
en þú, þý hjóna, þrýstu at þèr Völsa.

Ambáttin tekr við honum mjök blíðliga, vefr hann at sèr ok klappar honum ok kvað vísu:

Víst eigi mætta ek við um bindast
í mik at keyra, ef vit ein lægim í andkètu.
Þiggi Mörnir þetta blæti,
en þú, Grímr gestr várr,
gríp þú við Völsa.

Finnr tók þá við ok hèlt á, hann kvað þá vísu:

Legit hefig víða fyrir andnesjum
snæfgum höndum segl upp dregit.
Þiggi Mörnir þetta blæti
en þú Grímr griði minn, gríp þú við Volsa.

Hann fèkk þá Þormóði, tók hann við ok hugði at allglöggliga hversu Volsi var skapaðr, brosti hann þá ok kvað vísu:

Sá ek ei forðum þó hefig farit víða
flent reðr fyrri fara með bekkjum.
Þiggí Mörnir þetta blæti
en þú, aðal-Grímr, tak enn við Volsa.

Konúngr tók við ok kvað vísu:

Verit hefig stýrir ok stafnbúi
ok oddviti allra þjóða.
Þiggi Mörnir þetta blæti,
en þú, hundr hjóna, hirtú bákn þetta.

Hann kastaði þá fram á gólfit en hundrinn greip þegar upp, en er kerlíng sá þat þá var hon öll á flugi, brá henni mjök við ok kvað vísu:

Hvat er þat manna mèr ókunnra
er hundum gefr heilagt blæti;
hefi(g) mik um hjarra ok á hurðása
vita ef ek borgit fæ blætinu helga.
Legg þú niðr, Lærir, ok lát mik eigi sjá,
ok svelg eigi niðr, sártíkin rög.

Konúngr kastar þá af sèr dularklæðunum. Þekkist hann þá; telr hann þá trú fyrir þeim, ok var kerlíng treg til trúarinnar, en bóndi nokkuru fljótari, en með krapti guðs ok kostgæfi Ólafs verðr þat at lyktum, at þau taka öll trú ok eru skírð af hirðpresti konúngs ok heldu vel trú síðan er þau urðu áskynja á hvern þau skyldu trúa, ok þektu skapara

sinn; sá nú hversu illa ok ómannliga þau höfðu lifat ok ólíkt öllum öðrum góðum mönnum; má þat í slíku sýnast, at Ólafr konúngr lagði allan hug á at eyða ok afmá alla ósiðu ok heiðni ok fordæðuskap einnveg á hinum yztum útskögum Noregsveldis sem í miðjum hèruðum megínlandsins, hafði hann á því mesta hugsan, at draga sem flesta til rèttrar trúar; er þat nú ok auðsýnt orðit, at hann hefir svo gert þessa hluti ok alla aðra, at guði hefir líkat.



# Forklaring til Versene i Draumavitranir.

Geirviðr of nam greiða gangs[1] (gang?) svá at skreið ór þangi, ok beitti borð byrsóta[2] út um lágarða; ok snarpir meðr (menn) sóttu und Höfða ór seglhættu veðri við harðan uns vegg[3] við hún of seggjum.

1) leggja af stað. 2) skips. 3) segl? =með segl dregin við húna.

Skjót skeið náði þá skríða um ljótar bylgjur; dyggvir drengir fóru á hlýra dýrmörum[1]; þar sá ek prúðligast gerva för frægra fyrða. Þó er Geirviðr konúngr þeirra gotneskra gumna. (Digtets stef.)

1) skipum.

Göndul-herðendr[1]! sigldum skipaferðum grams með landi; þat dróttar ráð var gott; unz horskir sigrgöfgaðir seggir hjuggu vigrum hjörs börva[2] andskota (appos.) í Síldasundi.

1) vígherðendr. 2) menn.

Ok skjóma skerðendr gerðu sjá at varfærir skjaldmeyja vèar[1] lágu fyrir í vági; ljónar gátu líta breiðan leiðangrs flota; hirð hilmis, sú er of firðist vörn, fór und hjálmi.

1) skip skjaldmeyja.

Virðar vöknuðu brátt at þjóðar vígboði, þá er hafrastar hestar[1] Hlègunnar þustu mjök, ok snarráðir siklíngs vinir sóttu þíngat. Þó er o. s. v.

1) skip.

Ok blóðísúnga[1] beiðir[2], konr bragna (appos.) æxti þá

síðan Högna hnigsólar hríð[3] af magni; en vígroða varp víða af snarpri rómu, sjár varð dökkr af dreyra þá er drótt sótti hríðmál.[4]

1) hjalma. 2) Geirviðr. 3) orustu. 4) orustu.

Þar gerðist sverða svipan, þar kómu saman skjómar (Gjætn. for rómu); göndul varð fyrir grundu, því grams drótt sótti vel; geirvaldr Geirviðr of vá *með* geiri í þeirri klök[1]; ek sá blóðár[2] í blóði, blóð stökk um skör þjóða.

1) svipan. 2) sverð.

Hirð sú er fylkir stýrði gerði gríð af hörðu; margr er gjarn af gengi göfugtiginna jöfra. Ek spyrkat ferð frægra fyrða verða snjallari. Þó er o. s. v.

Ek leit híngat harðar ódáðir Hlègunnar; ek sá eiskranlig*a* yfð[1] geisa með ylgjar höfði; ek sá tröllskjapta tyggja tönnum hold af mönnum; *hón* gerði of harða sókn með hvápta hnitgeirum[2].

1) tröllkonu? 2) tönnum,

Ek stè annað Áta skíð[1] af öðru um víði, unz *ek* gekk *á* glæsimar gylfa með hilmis rekkum,[2] ok ek sagðag siklíngi hve grimmhuguð ægis geisla gerðr[3] gerði sýslu of vígaferðir.

1) skip. 2) konúngs skip. 3) Hlèguðr.

Gramr leit hitt hvat(=hve) hvergýmis[1] stjörnu hörn[2] hafði heiðíngja brúðar[3] höfuð á hauka stofni.[4] Örvígr frægr konúngr hinn er ekki vægði lèt flóðs elda ásynju[5] (ósynju Hd.,) hníga af fyllar meiði[6].

1) hafs. 2) Hlèguðr. 3) ylgjar. 4) öxlum. 5) Hlègunni. 6) skipi.

Höll hríðar aldjötuns[1] hrynr af heiða fenri[2], björg taka at falla; fornu setri muna fást friðr. *Það* gnýr þá er inn hári gramr[3] gengr um dökkva hamra; Hallmundr stígr hátt höllum fæti í fjalla gný.

1) hellir Hallmundar. 2) stormi. 3) Hallmundr.

Eldrinn kámi[1] hrýtr, áðr megingarða[2] harðvirkr[3] brjóti hauga; gnýr er of sáman[4] seimasæri[5]; *hann* lætr skjótlega hrjóta upp áma eimyrju; *það* verðr hljóðsamt um hrúngnis hurðir[6] við fok glóða.

1) svarti. 2) fjalla. 3) jötun, Hallmund. 4) dökkvan. 5) jötun. 6) dyr jötna, hella.

Liðbáls[1] lyptidraugar[2] laugast síðan at þat í foldar sveita[3], heldr heit vötn koma um hölda (Resten mörk).

1) gulls. 2) menn. 3) hverum, vellanda vatni.

Stór björg ok stinnar berg-búngur springa;] hrærir hjaldrborg hörga[1], þá vinnast[2] margir fírar. Þytr er um þundar glitni[3]; ek þramma á fyrir skömmu, en þeir fleiri þegnar magna þys hvívetna.

1) fjöllin skjalfa? 2) bugast. 3) himininn.

Þýtr í þúngu grjóti; þrír svíra eskimars[1] ýtar[2] líta þar enn undr er jöklar brenna; morðlundr! þó mun annat stórum mun meira undr, þat er mun enn standa, um kannast[3] fyrr á Snjógrundu[4].

1) skips. 2) menn. 3) birtast. 4) Islandi.

Kámir klettar spretta; víðisböl[1] knýr hlíðir; undarligr aur[2] mun færast upp ór grundu; margir hörgs höldar[3] munu lifna; þá rifnar himin, *ok* rignir mest; rökkr at[4] regni áðr heimrinn sökkvist (Hd. slökkvir).

1) eldr (stormr?), 2) vellandi hverir. 3) heljarsinnar. 4) syrtir að.

Ek stíg fjall af fjalli, ek fer opt litum; ek fer æst (dynst AM. 560) norðr it nyrðra niðr í inn þriðja heim. Sá er uggir við minni kvámu[1] hann beri opt ámr skegg[2]. Ek brýt bág við bjargagæti[3] í Elivága.

1) Þórr? 2) dropi skeggi niðr, sè hryggr? 3) Þór.

Várum allir saman vallbjúgir í húms heimi[1]; hugði ek því svá, er (=at) dugði[2]; vær nutum þeirra verka. (Resten uforstaaelig).

1) myrkheimi. 2) það var vel hugað.

Næste Vers er mörk og uforstaaeligt.

*Menn* kveða oss at einu illt at senna styrks[1] (sterks Hd.) við þann[2]; Þórr veldr fári flotna; sá er felldr[3] er eldir jöklum[4], *þú* þverðir sveit urðar attboga[5] (Gjætn.); ek geng gneppr[6] af nökkvi niðr til hins svarta Surts í eldinn heita[7].

1) reyna afl. 2) Þór. 3) fallinn. 4) kveykir í jöklum. 5) sveit jótna 6) lútr, hryggr. 7) niðr í Niflleim til Surts

Ek veð sem mjöll milli heima; margt er einmyrkligt[1]; jörð springr, en (því?) ek kveð Þór einn fóru svá þangat; breitt er at líta mèr sjálfum undir brún; ek skek heldr hvarma skjöldu[2]; þat er harmstríð bjargálfa[3] er ek fer víða.

1) draugalegt. 2) augu. 3) harmstríð bjargvætta.

Ek á einn hús í hrauni; beimar sóttu mik sjaldan heim; ek var aldrigi fyrr fimr *at* gamna gumnum. Nemi it flokk, eðr ykkart víti mun verða mikit[1].

1) nemið kvæðið, ella mun yðr henda mikið víti.

Ek rauð forðum branda í blóði með borðhrjóts[1] hlyn[2]; ek reynda skilfings[3] eggjar hvatt í hrotta hreggi; menn fèllu, en manna morð vóx forðum af því; nafni! ek em enn samr[4] at semja sama leik við þik.

1) skips. 2) manni. 3) sverðs. 4) búinn.

Ek mun þora reiðr at rjóða í blóði randa skóð[1], hvargi er slíðra flugdreki[2] rekks[3] ríðr með rekkum. En áðr ek gef örn fæði . . . Fyrr mun ek, hjaldrstærir! gjalda þèr högg við höggi.

1) vopn. 2) sverð. 3) kappans.

Æfinhildr[1] hefir *með* læfi orpit allskörpu ægis beini[2] fyrir heinar hurðar[3] herðundum[4]. Gerðr[5] stendr gumnum fyrir gamni með brugðnu sverði. Hèðins þeyjar eykvæn[6] vill ei enn með öllu. (Det prosaiske Slutningsled mangler.)

1) æfldis 2) hörðum steini. 3) sverðs. 4) menn. 5) dísin. 6) æfidísin.

Dómspakr guð[1], hinn er rakti lög, gekk fram at dómi

dóms þess er skyli slekkja[2] óþekk inni[3] áðr fangsæl hanga baldrs[4] (Gjætn. for baldr) biðkvæn[5] fengi riðnar und lok (dísir) æfi þinnar.

1) Oðinn? 2) slökkva. 3) illar maldeilur? 4) Oðins. 5) Valkyrja, dís.

Fákund meginunda[1] flugvörna[2], hvöss hjálmaguðr[3] (appos.) sitr yfir höggnum vísa[4] at fjörnis[5] jálmi[6]. . . .

1) sara. 2) valkyrja (sbr. sárvitr fluga). 3) dís. 4) konúngl. 5) hjálms 6) orustu.

---

# Poetiske Benævnelser i Versene i Bárðar- og Víglundar saga.

## 1. Kenníngar.

*Kvinde:* landa hlökk, 54 marglóðar tróða 71 silkigunnr 66 eygerðr 77 þorngrund 77 líneik 82 hlaðs þrúðr 82 laukareið 83 valgrund 83 gullhlaðs þópta 84 ormasetrs auðar (appos.) bil 85 auðs spöng 85 silkis skorð 86 tjalda tróða 87 menlín 87 geira gná 88 tvinna bil 88 seima hlökk 88 lýsigulls, liðarelds (appos.) hlín.

*Mand:* hrínglestir 71 menbrennir 71 malmþíngs meiðir 69 gullhríngs gætir 54 hrínga hirðir 64 skrauta njörðr 77 vánarelds Víglundr 84 flaustra eims Trausti 84 brjótr brendra bauga 85 fafnis landa gæðíngr 85 flýtir fremdar 86 auðbaldr 87 menja rýrir 14 auðspennir 14.

*Söe:* ægismarr 78 storma bíngr 87 máfa heiði 88 marbakki 65 farmr unna 64.

*Kamp:* eggveðr 71.

*Guld:* mundar jökull 86 liðar eldr 89 flaustra eimr 84 vánareldr 84.

*Hjælm:* holtvartaris (vartari=þvengr) ennitíngl.

2. Hálfkenníngar.

*Kvinde:* hlökk, 67 þrúðr 71 lín 77 freyja 77 troða 77, 83, 88, fjötra 81 brekka 82 þella 83.

3. Sannkenníngar.

*Kvinde:* munnfögr 77 ítrust 77 mjófa 77 fríð 67 hauklig 77 hárfögr 77 laugauðig 82 auði glæst 82 framlunduðust 82 hugrekk 82 prúð 82 valin 83 vænst 83 grannvaxin 84 skrautlig 86 mjallhvít 86 úng 66 87 brúnfögr 87 strangvaxin 87 svinn 89 hörvi glæst 89.

*Mand:* skýrr 77 vænn 84 raunfróðligr 85 hvítr 54 bjartr 54 glaðr 54.

*Bölge:* súgandi 64.



## Udtog af Bárðarsaga.

Kong Dumb raadede for Landene omkring Dumbshav, han stammede paa fædrene Side fra Jætter, (risar) hvilke ere høiere og smukkere end andre Mennesker, men paa mødrene Side stammede han fra Trolde; han slægtede denne sin dobbelte Æt paa; han var stærk, smuk og mild og kunde godt omgaaes Mennesker, heri slægtede han sin Fader paa, men paa den anden Side voldsom vild og grusom, naar han blev vred, heri slægtede han sin Moder paa. Man gav ham Kongenavn, for i ham at have Beskyttelse imod Jætter, Trolde og onde Væsener. Han blev Konge 12 Aar gammel. Han ranede fra Kvænland den skjønne Mjøll Kong Snees Datter, efter hvis Navn den hvide nyfaldne Snee siden er bleven opkaldt; med hende fik han Sønnen Baard, et smukt Barn, der i Alt lignede sin Moder. Kort efter opstod Fjendskab mellem Kong Dumb og Thurserne. For at have sin Søn i Sikkerhed sendte Kong Dumb ham til sin Ven, Bjergboeren Dovre i Dovrefjæld. Dovre fostrede ham op, og oplærte ham i Idrætter, Vaabendygtighed, Ætkyndighed (ættvísi) og Trolddom. Baard fattede snart Kjærlighed til Dovres Datter Flaumgerde, og efter tre Aars Forløb giftede Dovre sin Datter med ham. En Nat drømte Baard at et Træ spirede op i Dovres Klippehal; det voxte snart udover Hulen, indtil dets Grene tilsidst spredte sig over hele Norges Land. En

af Grenene havde den fagreste Blomst med Guldfarve. Denne Drøm tydede Baard saaledes, at en kongefødt Mand vilde komme i Dovres Hal, der vilde stifte et Eneherredømme over Norge, men den gyldne Kvist monne betegne en Fyrste der bebudede en ny Religion (Olav den hellige). Kort efter kom Harald Haarfagre til Dovre, blev opfostret af ham, og siden efter kaldt Dovrefostre.

Baard havde 3 Døttre med sin Kone Flaumgerde, da døde hun, men Baard ægtede igjen Herthrude Rolv Herses Datter, og havde med hende 6 Børn. Fjendskaben mellem Kong Dumb og Jætterne voxte bestandig. Tilsidst blev Dumb overfaldet af deres Formand Haardværk, og dræbt. Haardværk blev siden Konge, men Dumbs Enke Mjøll givtede sig igjen med Jætten Svades Søn Rødfeld nord fra Dovrefjæld, og fik med ham Sønnen Thorkel; han voxede op. Begge Brødrene Thorkel og Baard overfaldt Haardværk og indebrændte ham tilligemed 30 Jætter. Da turde de ikke længer blive i denne Egn, og flyttede syd paa til Norge, og boede der indtil Kong Harald lúfa underkastede sig hele Norge. For denne Ufred og Trældom besluttede Baard at rømme Landet. I Forening med Heyjangrsbjörn, og den vanskabte Thorkel Skinnvefja (saaledes kaldt fordi han som Barn blev svøbt i Sælhundeskind) gik han til Søs og styrede til Island. Under Island skildtes Heyangrsbjørn fra ham og styrede til Nordlandet, men Baard landede paa Vesterlandet i Nærheden af den høie Snæfjældsjøkul. Flere Stednavne der paa Stedet hidrøre fra denne hans Landgang, saaledes kaldes Troldekirke en Hule hvor Baard blotede, og Sanghule den Hule hvor de holdt deres Forsamlinger. Barðarlaug en lille Sø, hvori Baard badede sig. Han byggede Gaarden Laugarbrekka; hans Broder Thorkel byggede Gaarden Arnarstape.

